Áttunda ár. 1845. Niunda ár.

# Fjölnir



Ben. Gröndal

Ljósprentað í Lithoprent

Áttunda ár. 1845. Níunda ár. 1847.

# Fjölnir



Ben. Gröndal

Ljósprentað í Lithoprent

# FJÖLNIR.

## ÁRRIT HANDA ÍSLENDINGUM.

"Gefið út"

af

NOKKRUM ÍSLENDINGUM.

Áttunda ár.

ÁBYRGÐARMAÐUR:
*HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.*

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1845.

## YFIRLIT EFNISINS.

Bls.

Áætlun um tekjur og gjöld hins íslenzka jarðabókarsjóðs árið 1845 . . . . . 1.
Óhræsið . . . . . 22.
Þorkell þunni . . . . . 24.
Kvæði eptir *Horatius* . . . . . 26.
Um latínuletrið . . . . . 28.
Formanns-vísur . . . . . 34.
Nokkrar athugasemdir um fiskverkun á Íslandi . . . . . 39.
Fjallið Skjaldbreiður . . . . . 50.
Víti . . . . . 53.
Fremri námar . . . . . 54.
Aldarháttur . . . . . 54.
Ferðalok . . . . . 54.
Bókafregn . . . . . 56.
Skýrsla um íslenzk bindindisfjelög frá vordögum 1844 til vordaga 1845 . . . . . 77.
Um minnisvarðann eptir sjera Tómas Sæmundsson . . . . . 83.
Auglýsing . . . . . 84.
Illur lækur . . . . . 84.

## PRENTVILLUR.

Á bls. $15^{23}$ december f. desember.
— — $28^{30}$ Islendinga f. Íslendinga.
— — $32^{16}$ annaðí f. annað í.
— — $34^{1}$ VISUR f. VÍSUR.
— — $44^{5}$ han f. hann.
— — $64^{1}$ $^{2o}$ f. $2^{o}$.

## ÁÆTLUN UM TEKJUR OG GJÖLD HINS ÍSLENZKA JARÐABÓKARSJÓÐS, ÁRIÐ 1845.

Fyrir ekki all-mörgum árum var það álit flestra manna á Íslandi, og verið getur svo sje víða enn, að allt það fje, sem varið er af stjórninni til þarfa landsins eða einstakra manna, sje lagt Íslendingum af hinni dönsku stjórn sjálfri, eða jafnvel af hinni dönsku þjóð, eins og hreppsómögum er lagt af fjármunum sveitarinnar. Er þetta álit sprottið af tvennum rótum, og hvorartveggja illgresi. Sumir ímynda sjer tolla og tekjur, sem goldnar eru stjórninni, skyldugjöf landsmanna, en kalla þó allt, sem stjórnin ver til þjóðarinnar nota, líknargjöf eina konungsins; meta þeir svo, sem þjóðirnar sjeu vegna drottna þeirra og stjórnarmanna, en drottnar og stjórnarmenn ekki vegna þjóðanna. Er mikil vorkun, þó svo hafi verið á litið um stund á Íslandi, þar sem sú kenning hefur víða ríkt, í þjóðmyrkri því, sem á hefur verið. En úr því farið er nokkuð að lýsast um hugmyndir manna í þessu efni hjá þeirri einu þjóðinni, sem kalla má að oss sje leyft að hafa viðskipti við, og konungur vor hefur á margan hátt látið í ljósi, að hann er vaxinn upp úr slíkri villu, og einkum með því, að gjöra þegnum sínum reikning fyrir, hvernig varið er tekjum ríkis-

ins, er ekki ólíklegt, að tala þeirra sje farin að minnka, sem af slíkum rökum halda oss þurfamenn. Hinir eru eflaust miklu fleiri, sem kenna um fátækt vorri, og halda stjórnin leggi miklu meira fje fram, landinu til þarfa, enn hún tekur í aðra hönd. Þessum mönnum er líka vorkun, því embættismenn vorir hafa dyggilega alið þá í þeirri trú, en stjórn Dana sjálf hefur aptur gefið embættismönnunum tilefnið. Áður enn breyting varð á stjórn rentukammersins um vorið 1841 mun líklega lítið hafa verið hugsað um, hvað Ísland legði fram í raun rjettri; hafa þeir, er sömdu þar reikninga landsins, líklega ekki hirt um þær tekjur, sem ekki runnu beinlínis í jarðabókarsjóðinn, en á hinn bóginn reiknað landinu það, sem fáum mundi nú til hugar koma. En það er óþarfi, að leiða hjer um það nokkrum getum, í hverju þeim reikningum hafi verið ábóta vant, og er nóg að minnast þess, að eptir þeim áttu landinu að vera lagðar 20 eða 30 þúsundir ríkisdala á ári hverju, að því sem Grími etazráði hefur verið sagt í rentukammerinu (sbr. Frjettir frá fulltrúa-þingi í Hróarsk. 1840, bls. 49), og ráða má af hinum fyrstu ríkisreikningum Dana, sem birtir hafa verið almenningi; en enginn fjekk að vita, hvernig það var undir komið, að landinu skyldi vera lagt svo mikið. Nú er það mál komið í annað horf, og í áætlun þeirri um tekjur og gjöld ríkisins árið 1845, sem prentuð hefur verið í vetur, stendur áætlun sjer um reikningshag Íslands, með athugasemdum við gjöld og tekjur, og er sú líklega í mörgum greinum ólík hinum fyrri reikningum, sem ekki komu í ljós. Höldum vjer að lesendum Fjölnis muni þykja fróðlegt að sjá hana, og margur kunni að fá af henni góða hugvekju; þessvegna höfum vjer snarað henni á íslenzku, og bætt við litlum skýringargreinum.

---

## Tekjur:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Ágóði af konungs-jörðum . . . . | 7500 | rdd. | „ | skk. |
| 2. | Þinggjald úr Gullbringusýslu og Reykjavík; skattar úr Vestmannaeyjum; lögmannstollur . . . . . . | 1500 | — | „ | — |
| 3. | Gjöld við landsyfirrjettinn . . . . | 12 | — | „ | — |
| 4. | Tollar af erfðafje . . . . . . . . . | 800 | — | „ | — |
| 5. | Tollar af jarðasölu, ½ af hundraði hverju . . . . . . . . . . . . . . . . . | 300 | — | „ | — |
| 6. | Sýslu-afgjöld, og kaup lögþingisritara . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1529 | — | 50 | — |
| 7. | Konungstíund úr Þingeyjarsýslu hvorritveggja . . . . . . . . . . . . | 270 | — | „ | — |
| 8. | Eins árs leiga af andvirði Laugarness . . . . . . . . . . . . . . . . | 112 | — | „ | — |
| 9. | Nafnbótatollur . . . . . . . . . . . . | 300 | — | „ | — |
| 10. | Embættistollur . . . . . . . . . . . . | 990 | — | „ | — |
| 11. | Vörutollar, samkvæmt opnu brjefi 28. d. des. 1836, § 13 . . . . . . | 1300 | — | „ | — |
| 12. | Flutnings-kaup af peningum til Danmerkur (¾ af hundraði hverju) | 30 | — | „ | — |
| 13. | Borgun fyrir leiðarbrjef skipa til Íslands . . . . . . . . . . . . . . . . | 1480 | — | „ | — |
| 14. | Ágóði af tíund staðarins forna í Skálholti, og jörðum þeim, sem þaðan eru enn eptir óseldar; leigur af Grund í Húnavatnssýslu, og Viðvík í Skagafjarðar-sýslu. Tekjur þessar eiga að renna í ríkissjóðinn, þar eð andvirði stóla eignanna er greitt þaðan . . . . . . . | 750 | — | „ | — |
| 15. | Óvísar tekjur . . . . . . . . . . . . | 100 | — | „ | — |
| | samtals | 16,973 | rdd. | 50 | skk. |

## Gjöld:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Kaup embættismanna, og því um líkt: | | |
| | a) Há-yfirvaldanna, lagagæzlumanna, landfógeta | 11,213 rdd. | 93 skk. |
| | b) Handa prestum | 1,268 — | 72 — |
| 2. | Til hins íslenzka biblíufjelags | 60 — | „ — |
| 3. | Læknakaup og því u. l. | 3,930 — | „ — |
| 4. | Handa leiguliðum konungs í Gullbringusýslu, í stað þess, er spítalinn á Gufunesi hefur verið lagður niður | 96 — | „ — |
| 5. | Ýmsar uppbætur | 22 — | 86 — |
| 6. | Uppbót handa sýslumönnum, fyrir þinggjöld hreppstjóra | 200 — | „ — |
| 7. | Póstgöngur um landið | 550 — | „ — |
| 8. | Leiga fyrir póstskipið, fram og aptur, veturinn 1844—1845 | 1,720 — | „ — |
| 9. | Styrkur til uppdráttar Íslands, frá nýári 1844, í fjögur ár; á ári hverju | 2,000 — | „ — |
| 10. | Handa iðnaðarmönnum; fyrir kálgarðafræ, o. s. frv. | 300 — | „ — |
| 11. | Samkvæmt útskýringunni við 14. atriðið í tekjunum, er reiknað aptur til gjalda | 750 — | „ — |
| 12. | Óákveðin útlát | 3,000 — | „ — |
| | Gjöldin samtals | 25,111 rdd. | 59 skk. |
| | Tekjurnar | 16,973 — | 50 — |
| | Viðbót sú, er jarðabókarsjóðurinn þarf með, verður þá | 8,138 rdd. | 9 skk. |

eða hjer um bil 8100 rdd.

# I. Athugasemdir við Tekjurnar.

**1. atriði.** Ágóðanum af óseldum konungsjörðum á Íslandi hefur hingað til verið varið til landstjórnarnauðsynja. Um árslokin 1842 var búið að selja konungsjarðir fyrir 127,936 rdd. 9 skk. Samkvæmt konungs-úrskurði, 18. d. maí 1836, hefur andvirði konungsjarða, er seldar hafa verið síðan 1836, runnið í ríkisskuldasjóðinn (*Statsgjældskassen*), og ekki verið goldnar leigur af því til ríkissjóðsins (*Finantskassen*), er kalla má jarðabókarsjóðurinn á Íslandi sje partur af, eptir því, sem nú er ástatt.

**2. atr.** Þegar tekjur þær eru undan skildar, sem taldar eru í annari grein, hafa sýslumenn í kaup sitt skatta og gjaftoll og konungstíundina, þegar þeir hafa hana ekki annaðhvort til leigu, eða til umboðs. Í Vestmannaeyjum er enginn gjaftollur goldinn, og eptir konungs-úrskurði 26. d. apr. 1786 eru konungstíundirnar fyrst um sinn lagðar prestinum í Eyjunum. Lögmannstollurinn, sem rennur í jarðabókarsjóðinn, eptir því, sem á er kveðið í tilskipuninni 11. d. júlí-m. 1805, § 5, er svo goldinn, að 4½ sk. kemur fyrir alin.

**6. atr.** Afgjald sýslumanna af sýslunum var fardagaárið 1842—1843 . . . . . . . . . . . . . . 1260 rdd. 44 skk.
Afgjaldið af Rangárvallasýslu hefur síðan verið aukið, við sýslumannaskipti, um . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 237 — „ —

samtals 1497 rdd. 44 skk.
Lögþingisritara-kaupið er . . . . . . . . . 32 — 6 —

alls 1529 rdd. 50 skk.

Í konunglegum úrskurði 26. d. sept. 1838 er svo á kveðið, að sýslu-afgjaldið, eða það fje, er sýslumenn eiga að gjalda í jarðabókarsjóðinn af tekjum þeim, er þeim er vísað á í kaup sitt, og í staðinn fyrir embættistoll, skuli vera 2690 rdd. En þetta fje getur ekki orðið svo

mikið, á meðan nokkrir af þeim, sem komnir voru til embætta 1838, hafa sýslur, heldur verður sýslu-afgjaldið að aukast smátt og smátt, við sýslumannaskipti, þangað til það kemst upp í 2690 rdd.; en jafn-framt verður embættistollinum sleppt, sem talinn er í 10. grein. — Úr Skaptafellssýslum eru goldnir 3 rdd. 36 skk. í lögþingisritara-kaup; slíkt hið sama úr Mýrasýslu og Hnappadals, en 1 rd. 66 skk. úr hverri hinna; verður það alls 32 rdd. 6 skk., og rennur í jarðabókarsjóðinn, eptir því sem á er kveðið í 5. grein tilskipunarinnar 11. d. júlí-m. 1800.

7. atr. Eptir konungs-úrskurði 28. d. sept. 1838, er Laugarness-jörð, sem byskupshúsið er sett á, keypt af Steingrími byskupi fyrir 2800 rdd., með þeim skildaga, að hann, og þeir, sem eptir hann verða byskupar, gjaldi 4 af hundraði hverju á ári í leigu eptir fje þetta.

10. atr. Eptir því sem sýslumennirnir losast við embættisskattinn, eins og getið er um í athugasemdinni við 6. atriðið, minnka tekjur þessar smátt og smátt, og hverfa seinast með öllu. Verða þá ekki aðrir embættisskattar eptir, heldur enn þeir, sem bæjarfógetinn í Reykjavík geldur á hverju ári af óvísum tekjum, og þeir, sem prestarnir eiga að gjalda á Breiðabólstað í Fljótshlíð, í Odda og Hýtardal, á Staðastað og Grenjaðarstað. Þó ber þess að gæta, að hinum dönsku ráðgjafaþingum var í fyrra fengið til íhugunar frumvarp til nýmælis, er kveður á, að engan embættisskatt skuli gjalda í Danmörku eptir nýár 1845. Þegar búið er að birta nýmæli þetta í Danmörku*), er svo til ætlað, að það verði einnig í lög leitt á Íslandi, að því leyti, sem snertir bæjarfógeta-embættið og þau fimm prestaköll, er áður voru nefnd. Þessi skattur, er gjöra má alls hjer um bil 120 rdd., yrði þá ekki goldinn af bæjarfógeta-em-

*) Það var gjört 8. d. janúars í vetur.

bættinu eptir 31. d. júli-m. 1845, eða af prestaköllunum eptir fardaga s. á.[1]

11. atr. Opið brjef 28. d. des. 1836 kveður á í 13. gr., að 2 rdd. 32 skk. skuli gjalda af hverju lestar-rúmi þeirra skipa, er þegnar Dana-konungs senda beinlínis frá Íslandi til annara landa. Afgjald þetta kemur í stað tolls þess, er gjalda skal (1 af hundraði hverju) af íslenzkum varningi sem fluttur er frá Danmörku, Sljesvík eða Holsetulandi til annara landa, og hefur andvirði þess tolls ekki hingað til runnið í hinn íslenzka jarðabókarsjóð. Aðrir tollar eru ekki goldnir af íslenzkum varningi, og þegar vara er flutt frá Danmörku til Íslands, er sem hún sje flutt í önnur ríki, og þarf þá ekki að lúka toll af henni, þótt útlend sje. Þegar dönsk vara er flutt til Íslands, sem neyzluskattur er goldinn af í Danmörku, fá flutningsmenn uppbót á honum[2].

12. atr. Eptir konungs-úrskurði 8. d. mai-mán. 1839 geta menn komið peningum til Kaupmannahafnar með því, að leggja þá í jarðabókarsjóðinn, og heimta þá síðan úr ríkissjóðnum í Kaupmannahöfn; þó má þetta fje, allt saman, ekki fara fram yfir 10,000 rdd. á ári. Sá, er peninga sendir, á að greiða 1 af hundraði hverju; af þessum eina renna $\frac{3}{4}$ í jarðabókarsjóðinn, en $\frac{1}{4}$ fær landfógetinn.

13. atr. Eptir því, sem á er kveðið í opnu brjefi 22. d. apr. 1807, í 2. gr.; í öðru opnu brjefi 28. d. des. 1836, í 15. gr. c., og í konunglegum úrskurði 26. d. apríl-m. 1836,

---

[1]) Þó hjer sje þannig ráð fyrir gjört, getur vel verið, að embættisskatturinn verði jafnt af tekinn á Íslandi eins og í Danmörku, það er að skilja, að svo miklu leyti hann er goldinn og greiddur, og stjórnin tekur hann ekki sjálf af kaupi því, er hún á að greiða. Að minnsta kosti gjörum vjer ráð fyrir, að málefni þetta verði borið undir álit alþingismanna. F.

[2]) Eins og varan væri flutt úr borgunum í Danmörku út á landsbyggðina. F.

á að borga fyrir leiðar-brjef skipa til Íslands, 36 skk. fyrir hvert lestarrúm. Þó ber þess að geta, að gjald þetta hefur hingað til runnið í aukatekjusjóð rentukammersins, eptir konunglegum úrskurði 1. d. októbers 1802.

14. atr. Eptir því sem á er kveðið í konungsúrskurði 15. d. apr. 1785, renna allar eignir byskupsstólsins í Skálholti í konungssjóð, ásamt konungstíundinni úr Rangárvallasýslu, Árness-sýslu, Skaptafellssýslu, Barðastrandarsýslu og Múlasýslunum báðum, er byskupsstóllinn í Skálholti átti áður; en í stað þess á að gjalda úr ríkissjóðnum til skólans í Reykjavík 2500 rdd. á ári. Frá því 1785 þangað til 1798 var selt af Skálholtseignunum fyrir 53,398 rdd. 35 skk. í dönskum kúranti, og rann það allt í ríkissjóðinn; af þessu fje hefur ríkissjóðurinn fengið 6488 rdd. fyrir flutning skólans úr Skálholti suður í Reykjavík 1785. Síðan hefur smásaman verið selt af Skálholtseignunum fyrir 5525 rdd. 56 skk., en ágóðinn af óseldum jörðum, ásamt tíundunum úr áður-greindum sýslum, verður (með afgjaldinu af Grund og Viðvík) 750 rdd.[1]

[1]) Þetta er eina atriðið í áætlun þessari, sem oss finnst ekki vera rjett fært til reiknings. Því þegar þessir 750 rdd. eru reiknaðir sem tekjur, og aptur látnir koma í útgjöldin, er auðsjeð að svo er á litið sem þeir snerti ekki Ísland, og kemur það eflaust af misskilningi á konungs-úrskurðinum 15. dag apríls 1785. Það er sjálfsagt, að með úrskurði þessum tók konungur undir sig allar eignir stólsins í Skálholti og gaf í móti 2500 rdd. á ári. En slíkt hefði mátt kalla ráðríki, ef ekki hefði verið svo til ætlað, að ábatinn af skiptunum kæmi Íslandi til einhverra nota. Margur kynni segja, að skólinn hefði átt að eignast ábatann, og þess viljum vjer engan veginn þræta. En úr því skólinn fær hann ekki, hefði þó landið átt að fá hann á annan hátt. Þessvegna bæri að reikna landinu í tekjur leigu af þeim peningum, sem fengist hafa fyrir Skálholtsjarðirnar, eptir að búið er að draga frá kostnað til flutnings á skólanum í Reykjavík, og leigu af þeim jörðum, sem óseldar eru, og það af Skálholts-tíundunum, sem ekki er varið til kaups handa sýslumönnum, en reikna landinu aptur

Hólastóls-jarðirnar hafa verið seldar fyrir 72,138 rdd. 53 skk., og hefur það fje runnið í ríkissjóðinn; en til uppbótar fyrir þetta hefur konungur lofað í úrskurði sínum 12. d. apríl-mánaðar 1844, að leggja skólanum á Íslandi 2880 rdd. á ári, og á að greiða þá peninga úr ríkissjóðnum. Jarðirnar Grund og Viðvík hafa verið keyptar til ábýlisjarða handa sýslumönnunum í Húnavatnsþingi og Hegranessþingi, og þar eð andvirði jarða þessara er partur af innstæðunni þeirri, sem Íslandi er bætt upp leigan af með þessum 2880 rdd. úr ríkissjóðnum, þá er tilhlýðilegt, að það, sem sýslumennirnir í greindum sýslum gjalda eptir þessar tvær jarðir, renni í ríkissjóðinn. Að síðustu ber þess að geta, að það fje, sem til skólans hefur verið varið til 30. d. júní-mánaðar 1844, hefur verið goldið úr jarðabókarjóðnum. En nú er svo á kveðið, að frá því 1. d. júlí-m. 1844 skuli gjalda nefnd tillög til skólans úr ríkissjóðnum; af því leiðir, að það, sem jarðabókarsjóðnum er lagt á hverju ári úr ríkisjóðnum, minnkar að minnsta kosti um 5380 rdd.

15. atr. Eptir því, sem greint er í athugasemdinni við 16. tekjuatriðið í reikningságripinu[1] fyrir árið, sem endaði 31. d. júlí-m. 1843, eru hjer einungis taldir þeir 100 rdd., sem goldnir eru í leigu eptir landfógetahúsið gamla í Reykjavík.

---

í útlát 2500 rdd. En eins og hjer er að farið, lendir ágóðinn allur í Danmörku, eða þeim parti ríkissjóðsins, er Danmörku snertir. Er það því undarlegra, sem jarðabókar-sjóðurinn er kallaður partur af ríkissjóðnum, að láta ekki ágóðann lenda hjá þeim partinum, heldur draga hann yfir í hinn hlutann. Reikningurinn verður líka sjálfum sjer sundurþykkur, þar sem Skálholts-tíundir þær, sem sýslumenn hafa í kaup, eru þó ekki reiknaðar landinu til útláta. F.

[1]) Hjer er eflaust verið að tala um ágrip af reikningum jarðabókarsjóðsins, þó undarlegt sje, þar sem þeir eru fáum kunnir. F.

## II. Athugasemdir við gjöldin.

**1. atriði.** Kaup embættismanna, laun, o. s. frv.
Þar af hafa:

A. 1) Amtmenn:

Stiptamtmaður:

kaup . . . . . . . . 2000 rdd.
skrifstofugjald . . 600 —

2600 rdd. „ skk.

þar að auk hefur hann hús til íbúðar leigulaust, sem hann á að halda við á sinn kostnað, og Arnarhóls-land afgjaldslaust.

Amtmaðurinn fyrir vestan:

kaup . . . . . . 986 rdd. 64 skk.
viðbót . . . . 600 — „ -
til húsaleigu . 200 — „ -
skrifstofugjald 400 — „ -

2186 — 64 —

Amtmaðurinn fyrir norðan og austan:

kaup . . . . . . 986 rdd. 64 skk.
viðbót . . . . 300 — „ -
skrifstofugjald 400 — „ -

1686 — 64 —

þar að auk hefur hann hús til íbúðar leigulaust, sem hann á að halda við á sinn kostnað, og Möðruvelli í Hörgárdal afgjaldslausa.

2) Lagagæzlumenn:

a) landsyfirrjetturinn:

yfirdómandinn:

kaup . . . . . . . . . . . 1184 — „ —

Flytja skal 7657 rdd. 32 skk.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | Flutt | 7657 rdd. | 82 skk. |
| 1. dómandi, kaup .... og 150 rdd. úr hinum íslenzka lagagæzlusjóð, fyrir það er hann snýr á dönsku almenningsmálum, sem stefnt er til hæstarjettar. | | 740 — | „ — |
| 2. dómandi, kaup .... | | 740 — | „ — |
| b) aðrir lagagæzlumenn: | | | |
| bæjarfógetinn í Reykjavík | | 300 — | „ — |
| 2 lögreglumenn í Rv., hvor 150 rdd. ......... | | 300 — | „ — |
| sýslumaðurinn í Vestmannaeyjum ..... | | 296 — | „ — |
| sýslumaðurinn í Gullbringusýslu ........... | | 230 — | 61 — |
| 3) Landfógetinn: | | | |
| kaup ......... | 600 rdd. | | |
| skrifstofugjald ... | 200 — | | |
| í stað íbúðarhúss . | 150 — | | |
| | | 950 — | „ — |
| | samtals | 11,213 rdd. | 93 skk. |

**B. Kennidómurinn:**

| | | |
|---|---|---|
| byskupinn, kaup ......... | 800 rdd. | „ skk. |

þar að auk fær byskupinn 1200 rdd. á ári af eigum skólans. Hann hefur íbúðarhús leigulaust, sem hann á að halda við á sinn kostnað, og Laugarnessland; er leiga af andvirði þess (2800 ríkis-

Flytja skal 800 rdd. „ skk.

Flutt 800 rdd. „ skk.

dölum) goldin í jarðabókar-
sjóðinn.

dómkirkjupresturinn í Reykja-
vík, í stað íbúðarhúss . . . 150 —

prestar á lökustu brauðunum,
alls . . . . . . . . . . . . . . . 318 — 72 —

samtals 1268 rdd. 72 skk.

3. atr. Kaup lækna og annað því um líkt:

landlæknirinn fær:

kaup . . . . . . . . . . . . . . . . 600 rdd.

viðbót . . . . . . . . . . . . . . . 300 —

í stað íbúðarhúss . . . . . . . . 150 —

1050 rdd.

til læknisdóma handa fátækum mönnum fær

lyfjasölumaðurin í Rv. . . . . . 260 rdd.

og fyrir að útbýta þeim . . . . 50 —

en lyfjasölumaðurinn í Stykkis-
hólmi . . . . . . . . . . . . . . 90 —

400 —

hjeraðalæknar:

a) í suður-umdæminu:

1) læknirinn í eystra hlutanum:

kaup . . . . . . . . . . . . . . . . . . 300 —

Þjóðólfshaga-land afgjaldslaust.

2) læknirinn í Vestmannaeyjum:

kaup . . . . . . . . . . . 300 rdd.

fyrir ábúðarjörð, fyrst
um sinn . . . . . . . . . 30 —

330 —

b) í vestur-umdæminu:

3) læknirinn í syðra hlutanum:

kaup . . . . . . . . . . . . 300 rdd.

fyrir ábúðarjörð . . . . 25 —

325 —

Flytja skal 2405 rdd.

Flutt 2405 rdd.

4) lækninn í nyrðra hlutanum:

kaup . . . . . . . . . . . 300 rdd.

fyrir ábúðarjörð, fyrst um sinn . . . . . . . 25 —

325 —

c) í norðaustur-umdæminu:

5) lækninn fyrir norðan:

kaup . . . . . . . . . . . . . . . . 300 —

Kjarna-land afgjaldslaust.

6) lækninn fyrir austan:

kaup . . . . . . . . . . . . . . . . 300 —

Brekku-land afgjaldslaust.

aukalæknir í Húnavatnsþingi . . . . . . . . . . 100 —

2 yfirsetukonur í Reykjavík, hvor 50 rdd. . . 100 —

aðrar yfirsetukonur . . . . . . . . . . . . . . . . 100 —

eptirlaun læknis þess, er síðast var í Vestmannaeyjum . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 200 —

eptirlaun yfirsetukonu úr Rv. . . . . . . . . . . 100 —

samtals 3930 rdd.

4. atr. Spítali sá, er fyrrum var í Viðey handa fátækum leiguliðum á konungsjörðum í Gullbringu- og Kjósar-sýslu, og þaðan var fluttur til Gufuness, var tekinn af eptir konungs-úrskurði 18. d. sept. 1793; var þá heitið 96 rdd. á ári úr jarðabókarsjóðnum handa gömlum leiguliðum á jörðum þessum, þeim er þess væru maklegastir, og ekkjum þeirra.

5. atr. Uppbætur þessar eru:

1) til sýslumannsins í Barðastrandarsýslu, fyrir það, að jörð, er honum var ætluð til ábúðar, hefur verið seld . . . . . . . . 5 rdd. 60 skk.

Flytja skal 5 rdd. 60 skk.

Flutt 5 rdd. 60 skk.

2) Kaup Lögrjettumanna úr Gullbringusýslu, eptir tilskipuninni 16. d. nóv. 1764, 1. gr. . . . . 17 — 26 —

alls 22 rdd. 86 skk.

6. atr. Uppbót þessi er goldin sýslumönnunum eptir því, sem kveðið er á í konunglegum úrskurði 21. d. júlí-m. 1803, í 4. gr. d.; en hverfur smátt og smátt við sýslumannaskipti, eins og skipað er í konunglegum úrskurði 10. d. maí-m. 1825. Þessi sama uppbót er við sýslumannaskipti tekin af sýslumanninum í Strandasýslu frá fardögum 1844. Árið 1843 var uppbót sú, er sýslumaðurinn í greindri sýslu fjekk, 24 rdd. 70 skk., og þegar þetta fje er dregið frá öllum uppbótunum, sem í fardögum 1843 voru 230 rdd. 94 skk., verða eptir 206 rdd. 24 skk., eða hjer um bil 200 rdd., er sýslumennirnir fá 1845 til uppbótar fyrir þinggjöld hreppstjóra.

7. atr. Brjefaburð og böggla hafa á hendi póstar þeir, sem til þess eru teknir, og er kaup þeirra goldið úr jarðabókarsjóðnum eptir konungs-úrkurði 23. d. maí-m. 1776, og allur kostnaður, sem varið er til póstferða um landið. Fyrir brjef þau, sem ekki snerta landstjórnarefni, er burðarkaup goldið eptir konungsbrjefi 8. d. júlí-m. 1779. Í konungsbrjefi þessu og brjefi rentukammersins 17. d. júní-m. 1786 er margt ákvarðað um brjefaburð, eptir uppástungum íslenzkra embættismanna, og segir konungsbrjefið, að flytja skuli kauplaust öll brjef, sem veraldlegir embættismenn rita hinum konunglegu stjórnarráðum, og snerta konungsmál eða þjóðmál, enda sje ekkert í þeim annars efnis. Svo skal og flytja kauplaust brjef byskups til presta og prófasta þau, er snerta embættisstörf, og sömuleiðis brjef þeirra til byskups.

8. atr. Opið brjef 18. d. ágúst-m. 1786 kveður svo á í 19. gr., að til þess fregnir geti borizt milli Íslands og annara landa Danakonungs í Norðurálfunni, skuli póstskip fara til Íslands hvert ár, og vera þar á vetrum, en fara þaðan snemma á vorum. Í samkomuhúsi verzlunarmanna í Kaupmannahöfn var það mörg ár í sífellu falið þeim á hendur að senda skip í ferðir þessar, er það vildi gjöra fyrir minnst verð; en í seinustu 5 árin, 1840—1844, hefur fjelag nokkurt í Reykjavík, er stofnað var 1339, tekið að sjer póstskipsgöngurnar, og hafa því verið goldnir fyrir það 1650 rdd. á ári hverju; er þetta meðaltala þess, er goldið var í leigu eptir skipið í 20 ár, frá því 1819, þangað til 1838, auk 64 skk. fyrir lest hverja í umsjónargjald handa skipherra, og tveggja þriðjunga af leiðsögupeningum. Að ári komanda mun þeim aptur líklega verða falin á hendur póstskips-sendingin, sem vill taka hana að sjer fyrir minnst verð. Árið 1843—1844 var alls goldið 1724 rdd. 52 skk. til póstskips-göngunnar.

9. og 10. atr. Til gjalda þeirra, er þurfti til mælingar Íslands og uppdráttar, var ætluð leigan af sjóði þeim, er safnað var handa Íslendingum árið 1783 *(De islandske Collectpenge)*; 31. d. december-m. 1843 var reikningur gjörður yfir fje þetta, og samþykktur af konungi 25. d. júlí-m. 1844, og var sjóðurinn þá 28,165 rdd. 24 skk. Eptir þessum sama konungs-úrskurði skal verja upp í þær 12,000 rdd., er ætlaðar eru til skólahússins í Reykjavík, mjölbótasjóðnum, er svo er kallaður, sem er 7500 rdd.; en það sem þá vantar, 4500 rdd., á að taka af fjársafninu 1783. Standa þá eptir á leigu í ríkissjóðnum 23,665 rdd. 24 skk., og er svo til ætlað, að þetta fje skuli geyma til þarfa Íslands með leigum og leiguleigum og sjóður þessi skuli heita aðstoðarsjóður Íslands *(Understöttelsesfond for Island)*, og má ekkert af honum taka, nema konungur leyfi. Eptir þessu er svo á kveðið, að fje það,

sem þarf til uppdráttar Íslands, skuli greiða úr jarðabókarsjóðnum, aldrei meira, enn 2000 rdd. á ári, og ekki lengur, enn í fjögur ár. Úr jarðabókarsjóðnum skal einnig greiða styrk þann, er iðnaðarmönnum kann að verða veittur, og verð fyrir kálgarðafræ. Til þessa tvenns, er síðast var talið, eru ætlaðir 300 rdd., og er það jafnt leigunni af mjölbótasjóðnum, sem áður var til þess höfð.

12. atr. Þetta fje er ætlað til að halda við húsum þeim, sem eru til alþjóðlegra þarfa; fyrir stikur og met og mæliker; í laun fyrir vísindastörf; flutningskaup og umbúðir sendra peninga; fyrir flutning óbótamanna frá Íslandi; o. s. frv.

Að síðustu má þess geta, að eptirlaun handa embættismönnum á Íslandi og ekkjum og börnum þeirra hafa hingað til verið goldin beinlínis úr ríkissjóðnum, eins og handa embættismönnum í Danmörku, og að hugnanir *(Gratificationer)* og hjálp handa þurfamönnum á Íslandi er goldið úr líknarsjóðnum, eins og handa þurfamönnum í Danmörku. Íslenzk eptirlaun 1843 voru alls 1950 rdd.

---

Reiknings-áætlun þessa munu flestir kalla bæði skýra og nákvæma, og kunnum vjer stjórninni þökk fyrir hana. En um leið verðum vjer að biðja menn gæta þess, að hún er ekki gjörð yfir skuldaskipti Íslands og Danmerkur, heldur yfir skuldaskipti ríkissjóðsins og hins íslenzka jarðabókarsjóðs; en sá reikningur hlýtur að verða nokkuð ólíkur þeim, sem færi yfir skuldaskipti Íslands og Danmerkur, meðan þær tekjur, sem stjórn Dana fær af Íslendingum, renna ekki allar í jarðabókarsjóðinn, og úr honum aptur öll útlát, sem þar í móti er varið til Íslands þarfa. Nú er það sjálfsagt, að þetta er að færast í lag, og jarðabókarsjóðurinn fær ýmsar tekjur, sem áður runnu fram hjá honum, t. a. m. gjaldið fyrir leiðarbrjef skipa (sbr. 13. atr. í tekjunum),

en er á hinn bóginn ekki reiknað sumt það til útláta, sem honum var áður reiknað og aldrei skyldi verið hafa, t. a. m. leigur af öllu því fje, sem sett er á leigu í jarðabókarsjóðinn[1]; en samt sem áður er í því efni margt enn, sem ekki er komið í skorður, eins og ráða má af áætluninni sjálfri. Þessvegna mega menn ekki líta svo á, sem Íslandi sjeu lagðir þeir 8100 rdd., sem gjöldin hafa fram yfir tekjurnar eptir áætluninni, nje heldur láta sjer koma til hugar, að stjórnin líti svo á, eða vilji, að svo sje á litið. En menn hafa í áætlun þessari fengið nokkurskonar undirstöðu, ef þeir vilja sjálfir gjöra sjer reikning um skuldaskipti landsins og stjórnarinnar, og skulum vjer hnýta hjer við nokkrum athugasemdum í þá áttina, þeim til leiðbeiningar sem lítið hafa hugsað það mál. Fyrst ættu menn þá að rannsaka áætlunina, og vita hvort þar sjeu ekki neinar tekjur, sem landinu eru ofreiknaðar, eða nein útlát, sem það ætti ekki að gjalda, og virðist oss, sem í því efni sje lítið að henni finnandi. Þó getum vjer ekki fallizt á, að gjöld þau, sem talin eru í 8. gr., sjeu rjett reiknuð landinu til útláta; því póstskipsferðir milli Íslands og Danmerkur virðast oss vera jafnt í beggja landa þarfir, að minnsta kosti meðan verzlunin er látin vera öll í höndum Dana, og danskir kaupmenn hafa fyrir þá sök mestan hagnaðinn af póstskipsferðunum. Vjer ætlum því rjett mundi vera að draga frá útlátunum, sem eru

| | |
|---|---|
| | 25,111 rdd. 59 skk. |
| helminginn af póstskipsleigunni . . . . | 860 — „ — |
| og verða þá eptir . . . . . . . . . . . . . | 24,251 rdd. 59 skk. |

[1]) Af 14. atr. í tekjunum geta menn nú einnig sjeð, að þó jarðabókarsjóðnum hafi fyrrum verið reiknaður til útláta allur kostnaður skólans, hefur honum ekki verið reiknaður einn skildingur í tekjur fyrir eignir hans, og hefur þetta hleypt fram tölu fjár þess, sem átti að vera lagt landinu, um 5 eða 6 þúsundir rdd.

Flutt 24,251 rdd. 59 skk.

Þar næst ber á að líta, hvort ekki eru önnur útlát og aðrar tekjur, sem reikna ber, enn getið er um í áætluninni. Þess er þá fyrst að geta, að þó eptirlaun handa íslenzkum embættismönnum, ekkjum þeirra og börnum, sjeu goldin úr ríkissjóðnum, ætti að reikna þau Íslandi til útláta[1]. Þau voru, eptir ríkisreikningunum 1843, 1950 rdd.

Gjafir þær, sem veittar voru Íslendingum úr líknarsjóðnum, voru það ár . . . . . . . . . 695 —

og styrkur sá, sem goldinn var dannibrógsmönnum á Íslandi . . . . . . . . . . . . . . 75 —

það er samtals ———— 2,720 — „ —

og má því bæta hjer við eptir ágizkun.

Verða þá útlátin öll . . . . . . . . . . . 26,971 rdd. 59 skk.

Hins vegar voru tekjurnar . . . . . . 16,973 rdd. 50 skk.

Þar við er að bæta leigum af því fje, sem fengizt hefur fyrir þjóðjarðirnar. Eptir athugasemdinni við 1. atr. í tekjunum var við árslokin 1842 búið að selja fyrir 127,936 rdd.

Flytja skal 16,973 rdd. 50 skk. 26,971 rdd. 59 skk.

[1]) Öðru máli skiptir um það, sem ekkjum er goldið úr ekkjusjóðnum; því hafi það nokkurn tíma verið reiknað Íslandi til útláta, hefði það auðsjáanlega verið rangt.

| | | |
|---|---|---|
| Flutt | 16,973 rdd. 50 skk. | 26,971 rdd. 59 skk. |
| 9 skk. Leigur þar af, 4 af hundraði hverju, | 5,117 — 42 — | |
| Leigur af því litlu, sem eptir er af fjegjöfunum til Íslands í hallærinu 1783, og reiknað er í athugas. við 11. atr. af útlátunum á 23,655 rdd. 24 skk., 4 af hundraði hverju | 946 — 22 — | |
| Tollur af varningi, sem fluttur er af Íslandi til Danmerkur, og þaðan aptur til útlanda. Stærð tollsins vitum vjer ekki fyrir víst, en geri menn alla vöru, sem flutt er af Íslandi til Danmerkur, 1,000,000 rdd. virði, og það mun láta nærri; en gizkum á, að af henni sje aptur fluttur þaðan ⅓, sem þó mun vera of lítið, þá verður tollurinn . . . | 3,333 — 32 — | |
| Tekjurnar verða þá alls | | 26,370 — 50 |

og er það minna enn gjöldin . . . . . . 601 rdd. 9 skk.

Þegar þannig er reiknað, verður það ekki stór-mikið fje, sem leggja þarf Íslandi úr ríkissjóðnum, og er þó sumt eptir smávegis ótalið, sem reikna mætti upp í þessa 600 rdd., svo gjöld og tekjur yrði hjer um bil jafn-stórt. En þá er samt ekki öllu enn á botninn hvolft,

heldur er eitt eptir, og þegar það er tekið í reikninginn og rjett metið, þá fær reikningurinn annan blæ, og Ísland fer heldur að verða ofan á í skuldaskiptunum. Það er verzlunarokið, sem ótalið er. Það er sjálfsagt, það er ekki hægt að meta það rjettilega. Það er líka auðvitað, að svo er um það, sem hvað annað, sem rangt er og óskynsamlegt; það er ekki Danmörku til jafnmikils hagnaðar og það er Íslandi til skaða. En þegar vjer eigum að gjöra reikning Íslendingar, er ekkert sanngjarnlegra, enn vjer metum skaða vorn. Nú eru kaup vor við Dani hjer um bil 1,000,000 rdd.[1] virði á ári, eptir því, sem áður er sagt. Ætlum vjer engum muni koma til hugar, að ofreiknað sje, þó vjer virðum svo, að vjer mundum fá einum tíunda hlut meira fyrir varning vorn, ef vjer mættum eiga kaup við aðrar þjóðir. Verður þá fjártjón vort (og hjer á ekki við að minnast á annan óhagnað, sem leiðir af verzlunarokinu) á ári hverju 100,000 rdd. Það kemur ekki mál við oss Íslendinga, hvort þetta fje rennur í ríkissjóðinn eða ekki. Þegar vjer erum að meta skaða vorn, stendur oss öldungis á sama, hvort ríkisstjórnin tekur sjálf fjeð eða gefur það öðrum. Af þessu sjest, að Íslendingar gjalda til Danmerkur stór-mikið fje fram yfir það, sem varið er af stjórninni beinlínis til þarfa landsins. En við því er að búast, einhver muni láta sjer um munn fara, vjer ættum eptir tiltölu að taka þátt í slíkum gjöldum, sem miða til að styrkja og efla allt veldi Danakonunga. Það er og eflaust harðla sanngjarnlegt, en allt kemur þá undir því, að menn kunni rjett að meta, hver ríkisgjöld snerta þannig ríkið allt, að þau nái einnig til Íslendinga. Vjer getum t. a. m. ekki skilið, að oss beri, Íslendingum, að taka þátt í útlátum þeim, sem varið er til herliðsins, eða til að greiða með leigur af ríkisskuldunum. Hins

[1]) Hartnær tíundi hlutinn af því gengur fyrir brennivín og önnur vínföng.

vegar þætti oss rjett, að vjer tækjum þátt í gjöldum þeim, sem ganga til hæstarjettar og þeirra stjórnarráðanna, sem hafa afskipti af landstjórn á Íslandi, og einkum bæri oss að leggja fje fram á konungsborð, eptir tiltölu. En hjer er aptur allt undir því komið, að menn kunni að meta, hvað rjett sje **eptir tiltölu**; því í því efni eru margar greinir, sem vel og vandlega þyrfti að íhuga. Þykir oss því síður bera nauðsyn til, að skýra frá hugmynd vorri um, hversu stór hluti Íslendinga ætti að vera í þessum útlátum, sem vjer þykjumst sannfærðir um, að lesendum Fjölnis muni vart til hugar koma, að hann ætti að vera stærri, enn skaði sá, er vjer bíðum af verzlunarokinu, og er það þá sýnt, er sýna átti með skýringargrein þessari.

Reiknings-áætlun þessi mun fá Íslendingum mörg önnur íhugunar efni enn það, sem hjer hefur verið á drepið. Menn munu t. a. m. íhuga hvert atriði í gjöldunum, hvað þarft það er, bæði í sjálfu sjer og að stærðinni til. Í annan stað munu þeir litast um, hvert ekki væru önnur útlát, sem landinu væru þarfari, eða full nauðsyn bæri til, að við væri bætt. Í þriðja lagi munu þeir skoða tekjurnar, og rannsaka, hvort þær sjeu jafn-haganlegar og vera ætti, eða komi þar ætíð niður sem skyldi.

---

# ÓHRÆSIÐ!

Ein er upp til fjalla,
yli húsa fjær,
út um hamra hjalla,
hvít með loðnar tær,
brýzt í bjargarleysi,
ber því hyggju' gljúpa,
á sjer ekkert hreysi
útibarin rjúpa.

Valur er á veiðum,
vargur í fugla hjörð,
veifar vængjum breiðum,
vofir yfir jörð;
otar augum skjótum
yfir hlíð, og lítur
kind, sem köldum fótum
krapsar snjó og bítur.

Rjúpa ræður að lyngi
— raun er ljett um sinn —
skýzt í skafrenningi
skjót í krapsturinn,
tínir, mjöllu mærri,
mola, sem af borði
hrjóta kind hjá kærri,
kvakar þakkar-orði.

Valur í vígahuga
varpar sjer á teig,
eins og fiskifluga
fyrst úr löngum sveig

hvítar hringa marga;
hnífill er að bíta;
nú er bágt til bjarga
blessuð rjúpan hvíta!

Elting ill er hafin,
yfir skyggir jel,
rjúpan vanda vafin
veit sjer búið hel;
eins og álmur gjalli,
örskot veginn mæli,
fleygist hún úr fjalli
að fá sjer eithvert hæli.

Mædd á manna bezta
miskun loks hún flaug,
inn um gluggann gesta
guðs í nafni smaug,
— úti garmar geltu,
gólið hrein í valnum —
kastar hún sjer í keltu
konunnar í dalnum.

Gæða-konan góða
grípur fegin við
dýri dauða-móða —
dregur háls úr lið;
plokkar, pils upp brýtur,
pott á hlóðir setur,
segir happ þeim hlýtur,
og horaða rjúpu jetur.

J. H.

# ÞORKELL ÞUNNI.

Friðar biðjum Þorkeli þunna,
þagnar er hann seztur við brunna;
óskemmtileg æfi mun vera,
ekkert sjer til frægðar að gera.

Fyrrum hann í söngmanna sessi
sagt er gæti tekið á vessi,
há-beljandi glumdi við gleði,
golufylltur naumast sjer rjeði.

Uppstigningar æðstum á degi
engin von er söngmaður þegi.
Hermdu Bragi! höfðingi ljóða:
hvernig gekk þá „Skrímslinu góða"?

Að er komið útgöngusálmi;
eins var það sem gneistar í hálmi,
þegar rauðum þeytir upp glóðum:
Þorkell verður allur að hljóðum.

Hausinn upp að kórstaf hann keyrir,
kúgast, svo úr nefinu dreyrir,
úr sjer másar óskapa-roku,
álíkt dimmri leirhverastroku.

Eins og þegar flugdrekar forðum
fleyttu um loptið glóandi sporðum,
skyggðu fyrir sólina sælu,
sátu menn í gjörningabrælu;

svo var inn í kórnum að kalla;
kreppist hý á öldruðum skalla;
sumir hættu sjálfir að drynja,
sumir fóru að emja og stynja.

Allir sneru augum frá jörðu,
upp í rjáfrið grátandi störðu;
skalf og sveigðist þakið út þanda
Þorkels fyrir losnuðum anda.

Geggjast allur guðsorða lestur,
á grátunum tvístígur prestur,
hleypir nú í hempuna vindi,
hrökkur út úr kirkjunni í skyndi.

Í sama bili er sálmurinn búinn,
situr Keli móður og lúinn;
öllum finnst, sem eitthvað sig dreymi,
aldrei meiri þögu varð í heimi.

Djákni fyrstur raknar úr roti,
rann sem mús úr nauðungarskoti,
fær sjer bók og hættir að hrína,
herðir sig með bænina sína.

En á meðan út er að klykkja,
á er komin söguna lykkja:
Þorkell æpir: „hættu að hringja!
hef jeg ekki lof til að syngja?"

Að svo mæltu aptur hann byrjar,
upp og niður gengur og kyrjar;
flýr þá, eins og fæturnir toga,
fólk, sem stæði kirkjan í loga.

Seinna var hann sóttur í kórinn
(svartur var þá á honum bjórinn)
örendur og oltinn á hnakkann —
á útgönguversinu sprakk hann.

J. H.

## KVÆÐI EPTIR *HORATIUS*.

*(Quis multa gracilis.)*

Hver er hinn ungi,
ilmsmurði sveinn,
er á rósareit,
ríkum og mjúkum,
faðmar þig fast,
undir fögrum skúta,
svölum og sælum?
seg mjer það, *Pyrrha!*

Lokka ljósgula
leysir þú honum,
skemmtunar skoðun,
skart þitt óbrotið.
Ó, hve optlega
ástir rofnar
og gremi goða
hann gráta skal!

Dynjandi dröfn
fyrir dimmum vindi
undrast hann, úfnum
óvanur sjó,

sá er nú nýtur
náveru þinnar
og gulli hreinni
þig getur vera.

Einum hann vonar
þú unir sjer
æ, og aldregi
öðrum sinnir;
veit hann víst eigi,
að veður hvikult
skamma stund skipast
í skýlopti.

Aumir eru allir,
óreynd er þú
ástar alglæst
í augu gengur.
Forðað hef jeg feigu
fjörvi mínu,
sem á hám, helgum
hofsvegg má sjá.

Hangir þar heitspjald
hermandi svo:
að jeg efnt hafi
upp að festa
sjóföt mín samtöld,
salti drifin,
drottni djúps
til dýrðar ríkum.

J. H.

# UM LATÍNULETRIÐ.

Það er bæði illt og broslegt, að sjá, hvernig menn, og ekki að eins menn, það er að skilja: hver um sig, heldur heilar þjóðir verja stórum kafla af æfi sinni — þessari blessuðu æfi, sem ekki er of löng hvort sem er — til að nema þá hluti, sem hvorki eru til gagns eða gamans, ellegar að minnsta kosti eru það miklu síður, enn margt annað, sem enginn gefur um að kunna. Þeir eru t. a. m. fáir á voru landi, sem hirða um, þó börnum þeirra sje ekki kennt að skrifa eða tala rjett íslenzku; en að rita þrjár hendur: fljótaskript, settletur og latínuhönd, það verður hvert barn að nema. Að minnsta kosti var það svo í mínu ungdæmi; og jeg geri ráð fyrir, það sje eins enn, og verði svo fyrst um sinn, nema ef þeir „blessaðir ungar", sem komið hafa í heiminn á Íslandi, síðan Frakkar fóru að venja þangað komur sínar, finna í sjer einhverja náttúrlega löngun til latínustafanna. Það væri betur að svo væri; því mjer finnast þessi þrjú letur vera eins og þrír tígulkóngarnir í sömu spilunum, og ekki til annars, enn trafala og tímaspillis. Það er sagt um djöfulinn, að hann hafi brugðið sjer í kóngulóarlíki og verið að vefjast fyrir pennanum hjá Marteini *Luther*. Hafi nú djeskotinn þorað til við *Luther*, þá má geta nærri, að hann muni stundum verða oss nærgöngull, smámennunum; því hann tekur það eptir guði, að vera hvergi fjarlægur sínum skepnum. Þessir fljótaskriptarstafir eru ekki ósvipaðir kóngulóm í vaxtarlaginu. Ætli þeir sjeu ekki „besetnar" kóngulær, skriðnar upp úr híbýlum sínum, til að tefja framfarir Íslendinga í því, sem meira ríður á? Því hvað ríður á, að geta skrifað þrjár hendur? Það mun eiga að vera nokkurskonar fremd! En það er líka fremd, og jafnvel mikilmennska, að geta tekið upp í sig og spýtt morauðu;

og ef það er mikils vert, að kunna að rita sama málið á þrjá vega, væri þá ekki líka mikið í varið, að kunna að tala það á þrjá vega, t. a. m. 1) eins og mönnum er eðlilegt; 2) fram í nefið; og 3) með gorhljóði? — Tveir menn hafa varið jafn-miklum tíma til að verða skrifandi; annar kann ekki nema latínuhönd, en skrifar hana ágæta vel, þó hann hafi alizt upp í sveit, og heiti ekki nema Halldór Sverrisson; en hinn skrifar þrjár hendur og allar illa, þó hann hafi alizt upp í kaupstað og heiti Jón — eða rjettara að segja: John — Anskotesen. Það er hvers girnd sem hann gerir; en heldur vildi jeg vera líkur Halldóri mínum.

Eins og menn verja of miklum tíma til, að komast upp á, að rita þrjár hendur, eins er hitt illa til fallið, að hafa tvö letrin í prenti, og verða svo að læra tvisvar að lesa. Gotneska letrið á prentuðum bókum samsvarar fljótaskriptinni og settletrinu í því, sem skrifað er; en latínu-prentletrið latínuhendinni. Þeim tveimur ættu menn að halda, en kasta hinum[1]. Rask heitinn hefur fært ástæður til þessa í „Lestrarkveri handa heldri manna börnum"[2]; en af því sú bók mun hafa orðið lítt kunnug á Íslandi, þá er reynandi til, að taka hjer upp hið helzta af því, sem hann og aðrir hafa skráð til að sýna, að latínuletrið eigi að vera í fyrirrúmi.

1. Gotneska letrið er ekki annað enn afbakað latínuletur. Í fyrstu, þegar farið var að prenta, þá var allt latínuletur látið hafa gotneska mynd, af því hún var þá höfð í skrifi. En það voru duggrabandsár latínuletursins; nú hefur það víðast hvar náð sjer aptur, eins og síðar mun verða á vikið.

2. Rómverska letrið er fegra, enn hið gotneska. Það er reyndar fornt orðtak, að ekki sje að þræta um það,

---

[1]) Um settletur væri reyndar nokkur vorkun, þó menn vildu halda því; en um fljótaskript alls engin.

[2]) Sb. *Samlede Afhandlinger af R. K. Rask* III, 3—4.

sem komið er undir tilfinningunni *(de gustibus non est disputandum)*, og þegar teknar eru tvær bækur, önnur með rómversku letri, en önnur með gotnesku, þá kann vera, að gotneska letrið þyki stundum fallegra fyrst í stað; en beri maður opt saman gotneskt letur og rómverskt, þá mun um síðir verða atkvæði manns, að rómverska letrið sje fegra; því það er einfaldara, enn gotneska letrið, og ekki nærri því eins hornótt; en það er óspillt eðli manns, að ljúka lofsorði á um það, sem er rjett og þó einfalt *(quae sunt recta et simplicia laudantur)*.

3. Gotneska letrið reynir meira á augun; það gera hornin, krókarnir og angarnir, sem á því og út úr því eru; því það gefur að skilja, að augað hefur eptir því meira erfiði, sem letrið er brotnara, þar eð það verður að fylgja hverjum drætti, og þar sem læknar segja, að þeim, sem málfræði iðka, sje hættast við augnveiki, þá mun það ekki koma til af því, að þeir lesi meira, enn þeir, sem stunda önnur vísindi, heldur af hinu, að þeir fást opt við ýmislegri og brotnari leturtegundir. Afleiðingarnar af slíkri áreynslu eru að sönnu ekki vanar að sýna sig í bráð, en koma þó síðar fram, jafnvel þótt sjónin hafi verið góð í upphafi; því dropinn holar harðan stein.

4. Latínuletrið tíðkast nú í meztöllum þeim hluta heimsins, er mestri menntun hefur náð. Þessar tungur í Norðurálfu eru ritaðar með latínustöfum: a) enska, sem tíðkuð er hjer um bil af 17 milíónum [1] á Englandi, Írlandi og Skotlandi; b) hinar keltnesku mállýzkur á Englandi, Skotlandi, Írlandi og Frakklandi, tíðkaðar af eitthvað 12 milíónum [2]; c) þau mál af þjóðversku kyni, sem töluð eru í Belgíu og Niðurlöndum af Valónum, Flæmingjum, Frísum og Hollendingum; en

[1]) og eitthvað 13,000 Gyðinga. *Berghaus* í *Allgemeine Länder- und Völkerkunde*, á 319. bls. í V. bd. (prent. 1843).

[2]) *Berghaus* í sama bandi sömu bókar á 77. og 318. bls.

mannfjöldi þessara þjóða saman talinna mun vera fram undir 6 milíónir; d) frakkneska; þeir, sem mæla á þá tungu, á Frakklandi og í Belgíu, munu vera yfir 32 milíónir[1], og þar að auk er engin tunga jafn-tíð útlendum þjóðum; e) mál þeirra Vaska (Baska, Biskæumanna), sem eru eitthvað 700,000 að tölu, og búa norðan og sunnan til við Pýreneafjöll; f) spánska (spænska, spánverska), sem töluð er á Spáni af eitthvað rúmum 10 milíónum; g) hafnlenzka (portugíska), sem töluð er af hjer um bil 4 milíónum á Hafnarlandi (Portúgal); h) ítalska; á þá tungu mæla hjer um bil 22 (sumir segja 24) milíónir; i) Sljettumanna-mál, sem tíðkað er af 10 eða 12 milíónum, og flestar aðrar slafneskar tungur — nema gerzka (rússneska) er rituð með gerzkum stöfum[2]; k) úngverska, töluð af eitthvað 2 milíónum, og önnur mál sömu ættar (eistneska, finnlenzka, lappneska og finnska). l) Svíar hafa nú einnig að mestu lagt niður hið gotneska letur og tekið hitt upp; þeir eru að tölu hátt upp í 3 milíónir.

Frakkar, Spánverjar, Hafnlendingar (Portúgalsmenn), Bretar og Niðurlendingar hafa miklar eignir í öðrum heimsálfum, og ræður að líkindum, að latínuletur sje þar við haft.

Í öllum Vesturheimi mun trauðlega nokkuð vera skrifað eða prentað öðruvísi, enn með latínsku letri; því enska, spænska og hafnlenzka eru þar höfuðtungur, svo annara gætir lítt eða alls ekki; og þegar menn skipta sjer þar nokkuð af mállýzkum hinna eldri Vesturheimsbúa, þá má nærri geta, að þær sjeu helzt færðar í þann búning, sem mönnum er þar eintíður.

---

[1]) Á Frakklandi (einu saman) eru 30,438,500 Frakka, og þar að auk 69,000 Gyðinga og 7000 *Cagots*, sem hvorirtveggja munu einnig mæla á frakknesku. *Berghaus* í sömu bók V, 77.

[2]) Sjá næstu athugasemd um tshechverskuna.

Hjer af má sjá, að latínuletur tíðkast um mikinn hluta heimsins, en hið gotneska tíðkast ekki við önnur mál, enn þjóðversku [1] (á sjálfu Þjóðverjalandi, á Svissaralandi, og í nokkrum öðrum stöðum, þar sem Þjóðverjar hafa tekið sjer bólfestu) og dönsku (í Danmörku og Norvegi), og þó er það ekki eingöngu við haft á þessum málum, heldur með latínuletrinu, svo að margar bækur, einkum þær, sem bezt er til vandað, eru prentaðar með latínuletri, og fer það allt af í vöxt, og sumir þeir rithöfundar, sem mest kveður að, láta ekki prenta neitt eptir sig með gotnesku letri. Það er líka atkvæði þeirra manna, sem bera mest skynbragð á þess háttar efni, og þar á meðal tveggja, sem einna mestir málfræðingar hafa verið, *Jakobs Grimms* [2] og *Rasmuss Rasks*, að þessu letri, er menn kalla gotneskt, en ekki er annaðí raun og veru, enn afbakað latínuletur, sje alls engin bót mælandi.

5. Latínuletrið er góðum mun auðugra að bókstöfum, enn hið gotneska. Það er með stafina eins og með peninga, að það færi bezt á, ef allar þjóðir hefðu eitt letur, nema að því leyti, sem málin hafa ekki öll sömu hljóð; hljóðið a er og verður a, hvort sem það finnst í kínversku, indversku, frakknesku eða íslenzku, og ætti að vera ritað eins í öllum málum; en þ t. a. m. ætti einungis að vera haft, þar sem það er í framburðinum, t. a. m. í gotnesku, engilsaxnesku, íslenzku, ensku og grísku, en ekki við þau mál, sem ekki hafa neitt þ-hljóð; sama hljóð ætti að vera ritað eins um heim

[1]) Tshechar, slafnesk þjóð á Bæheimslandi, hjer um bil tvær milíónir að tölu, tíðka einnig gotneskt letur að mestu leyti, af því Þjóðverjar kringja um þá öllu megin; en þess verður trauðlega langt að bíða, að Tshechar taki upp latínuletrið eptir Sljettumönnum.

[2]) T. a. m. í formálanum fyrir framan *Deutsche Grammatik*. Þar getur *Grimm* einnig þess, hversu *Gatterer* farast orð móti gotneska stafrofinu.

allan, í hvaða máli sem það finnst; og ef það væri gjört, þá gæti munurinn á tungunum (að því leyti, sem hljóðaeign og hljóðasetningu snertir) hvorki sýnzt meiri eða minni, enn hann er í raun og veru. Ætti nú eitt letur að ganga yfir allan heiminn, þá væri sjálfsagt ekkert letur hæfara til þess, enn latínuletrið, og ekkert eins hæft.

Nú kann sumum að sýnast, sem rómverska talan eigi að fylgja rómverska letrinu, svo menn verði að taka upp töluna líka, ef letrið sje tekið upp; en þess ber að gæta, að hjer er ekki mælt fram með latínuletrinu, af því það er rómverskt, heldur af því, að það hefur mikla kosti til að bera; en um töluna rómversku er allt öðru máli að gegna, því hún er svo ófullkomin og stirð meðferðar, að hún getur ekki komizt í neinn samjöfnuð við indversku töluna (1. 2. 3. 4. 5. 6. 7. 8. 9. 0.), og er fyrir þá sök hvergi við höfð á vorum dögum, nema endur og sinnum, fyrir tilbreytingar sakir og annara smá-nauðsynja.

# FORMANNS-VISUR.

## I.

### Framróður.

Hafaldan háa!
hvað viltu mjer?
berðu bátinn smáa
á brjósti þjer,
meðan út á má'a-
miðið jeg fer.

---

Svalt er enn á seltu,
sjómenn vanir róa,
köld er undiralda,
árum skellur bára;
dylur dimmu jeli
dagsbrún jökulkrúna;
svæfill sinnir ljúfum
svanna heima í ranni.

Föður minn á miði
móðir syrgði góðan,
köld er undiralda,
árum skellur bára;
bræður mína báða
bæjum sneyddi ægir;
svalt er enn á seltu,
sjómenn vanir róa.

Einatt öldu'jóni
á óalegan sjóinn

hrundu hart um sanda
hraustir menn úr nausti;
heill kom heim að öllu
halur og færði valinn
hlut í háum skuti
hjúa til og búa.

Björgum enn til bjargar
báti, verum kátir!
svæfill sinnir ljúfum
svanna heima í ranni.
Nótt er enn, þótt ótta
af sje liðin hafi;
dylur dimmu jeli
dagsbrún jökulkrúna.

Hræðumst lítt, þótt leiði
löður árarblöðum
eld í spor, og alda
úfin froðu kúfist;
rerum fast úr fjöru,
fram gekk tamin snekkja
vel á vogi svölum.
Við erum nú á miði!

---

## 2.

### Seta.

Mardöll á miði
í myrkbláum sal!
seiddu nú að sviði
sækinda-val;

láttu fara í friði
fengsælan hal.

---

Stjóri sökk að sjávargrunnum,
situr yfir hvikum unnum
veiðimaður á valtri skeið;
förum öngul beittan beita,
báru knýja og fiska leita
þöngli nær á þorskaleið.

Bítur undir borði gráu;
blótaðu ekki seiði smáu,
slepptu því heldur, maður minn!
Jeg er að draga þorsk úr þara,
það varð honum feigðarsnara,
að hann gleipti öngulinn.

Hjálpi drottinn höndum öllum!
hækkar dagur á austur-fjöllum,
senn á báru sólin skín.
Dragðu, sveinn! úr djúpi köldu
dagverð þinn, sem býr í öldu,
hlutartalan hækki þín!

Hvað mun hugsa þessi þorri,
þilju sem að undir vorri
háskatólin hremma fer?
þótt þeir sjái, sjeu dregnir
synir þeirra, beitufegnir
gamlir þorskar gleyma sjer.

Jeg hef varla við að draga;
verði það svona alla daga,

meðan nokkur maður rær!
Nú er hlaðinn bátur að borði,
blessaður unninn nægtaforði;
þökk og heiður sje þjer, sær!

---

3.

## Uppsigling.

Útrænan blíða,
sem opt kysstir mig!
láttu nú líða
yfir leyptur-stig
fleyið mitt fríða,
svo faðmi jeg þig.

---

Reisum trje, svo renni að ósi
rangajór, því langar stórum
nú að heilsa bæ og búi
báruþegn, er stýri gegnir;
breiðum voð, svo gráan græði
getum kvatt, því nóg er setið.
Sælla vart er eitt að öllu,
enn að sigla heim til kvenna!

Bíður kona heima á hlaði,
hrædd og fegin seglið eygir,
sjer að hleypur, hyggur steypist
hrannaljón á djúpu lóni;
vonin dregur, óttinn agar,
undan lítur þá og flýtir
sjer að kyssa, sinn að blessa
son og minn, á rjóðar kinnar.

Herðið, drengir! hratt á strengjum,
horfði við á goluborða
nú að leystust tengslin traustu,
teygir blakkur sævar makka;
geysa tekur gangi fúsum
gnoðin mín um hvíta boða.
Sælla vart er eitt að öllu,
enn að sigla heim til kvenna!

Lægjum voðir nú í næði,
nóg er siglt, sem fyr var róið,
knararstefni vel að vörum
víkjum undan sævarríki.
Þökkum drottni þeim, er hlotnast
það oss ljet, að allir getum
hraustir borið heim að nausti
hlutarval úr fermdum skuti.

J. H.

# NOKKRAR ATHUGASEMDIR
## um fiskverkun á Íslandi.



**Höfundur þessara athugasemda, herra *Fiedler*, amtsráð, hefur boðið Fjölni þær, og hafa útgefendurnir tekið því með þökkum. Hann er fær að tala um þetta efni, því hann hefur sjálfur ferðazt víða, og grannkynnt sjer allt, sem viðvíkur fiskverkun, og hefur sjálfur miklar fiskveiðar fyrir útsuður-ströndum Sjálands í Danmörku. Vjer væntum einnig, að landar vorir kunni honum þakkir fyrir velvild sína og viðleitni að benda til þess, er betur mætti fara í jafn-mikilsverðum hlut, sem fiskverkun er, á Íslandi. Að minnsta kosti þarf engan að ugga, að annað búi undir, enn gott eitt; því svo vel stendur á, að höfundurinn er á engan hátt við riðinn íslenzka kaupverzlun, eða nokkur önnur efni landsins, svo honum mætti fyrir sitt leyti standa á sama, hvernig Íslendingar fara að ráði sínu, ef hann vildi þeim ekki vel. Vera má, ef þessu verður tekið vel, að Fjölnir reyni seinna að skýra greinilega frá, hvernig öll fiskverkun fer fram á þeim stöðum, er mest kveður að henni, og sýna jafnframt allt ástand fiskverzlunarinnar, svo betur megi skiljast, hvað vjer eigum í hættu, ef fiskur vor verður í litlu áliti, og á hinn bóginn, hver ábatavon það sje, ef honum gæti farið svo fram, að hann jafnaðist að útliti og gæðum við þann, sem beztur er annarstaðar.**



Hver, sem hefur komið til Íslands, og gefið nokkrar gætur að fiskveiðum Íslendinga, mun eflaust hafa sjeð, hvílíkar hættur og erfiðismunir eru samfara þessum atvinnuvegi, sem allt bjargræði sjávarbóndans er undir komið; og aðdáanlegt er hugrekki og þolgæði íslenzkra fiskimanna, sem sækja sjóinn matarlausir, og láta hvorki á sig bíta kulda nje harðviðri, en sjór þar með öllum jafnaði úfinn og illur, og lendingar mjög viðsjálar og voðalegar, sökum hamra og kletta, brims og boða og blindskerja. Nú með því slíkt er lagt í sölurnar, með því aflinn er lífs-stofn sjávarbóndans, sem hann leggur

líf og heilsu í hættu fyrir á hverjum degi, með því fiskurinn er honum brauð, og afgangurinn af því, sem fer til sparsamlegs fæðis, er eina varan, sem hann hefur að bjóða, til að kaupa fyrir aðrar nauðsynjar, þá virðist það auðsætt, að honum ríði mjög mikið á, að gjöra sjer þessa atvinnu svo notasæla og arðsama, sem auðið er. Það er því illa farið, að sjómenn á Íslandi hirða ekki afla sinn svo alls kostar vel, að hann geti orðið holl fæða handa sjálfum þeim, og góð og falleg vara til verzlunar. Það er alkunnugt, að skemmt og illa verkað fiskæti er hverjum mat óhollara, og hlýtur það einkum að koma fram á Íslandi, bæði sökum þess tilbreytingin í matarhæfinu er svo lítil og skorturinn mikill á allri kornvöru og maturtum; og svo segja margir vitrir menn og lærðir í læknisfræði, að holdsveikin á Íslandi muni mest vera að kenna miklu og einkum illa verkuðu fiskmeti. Þetta eitt mætti nú virðast nóg til að láta sjer annt um meðferð á fiskinum; en þess þarf eins við, eigi hann að geta orðið góður kaupeyrir. Það er hverjum manni auðskilið, að þegar kemur á markaðinn, muni bezta varan bæði ganga fyrst út og verða bezt borguð; og sje of mikil vara saman komin, muni sú, sem bezt er, fá kaupendur samt sem áður, en hin, sem lakari er, hljóta að liggja óseld. Nú er svo ástatt, að um hin síðustu 20 ár hafa fiskveiðar tekið ærnum framförum bæði í Norvegi, Hjaltlandi, Nýfundnalandi og víðar[1], og svo mun og verða um skammt á Færeyjum, þegar búið er að ljetta af þeim verzlunarokinu; þessvegna stendur það á mjög miklu, að fiskur Íslendinga fái svo gott álit, að hann verði ekki smátt og smátt öldungis út undan, eptir því, sem meiri fiskur verður hafður á boðstólum. En hætt er samt við, að svo illa kunni til að takast; því

---

[1]) Sama má með sanni segja um Ísland, síðan rýmkað var þar um verzlunarfrelsið.

jeg hef optar enn einu sinni sjeð íslenzkan fisk svo illa verkaðan, að enginn maður vildi eiga hann, eða þá varla fyrir hálfvirði; opt hef jeg líka heyrt kaupmenn kvarta yfir fiskverkuninni, og ekki að orsakalausu, og ekki er langt síðan menn sáu dæmi til þess, að fiskfarmar, er sendir voru frá Íslandi til Miðjarðarhafsins, gengu ekki út, þar sem þó hjaltlenzkur saltfiskur er kominn í svo mikið álit á Spáni, að hann flýgur þar jafnan út með hæsta verði, og Spánverjar sjálfir senda á hverju ári hjer um bil 20 stórskip til Hjaltlands, til að sækja þangað fisk og kaupa hann þar í höfnum heima. Það virðist því sem nóg sje til, sem draga mætti Íslendinga til að leitast við að koma fiski sínum í gott álit; og allt er undir því komið, að það geti orðið í tækan tíma, því eptir því sem aflinn eykst annarstaðar og aðdráttur til markaðanna, verður það ár frá ári örðugra, að koma upp aptur vöru, sem orðin er í litlum metum, og allra torveldast verður það, þegar að því er komið, að afleiðingar þess óþokka, sem hún er komin í, eru orðnar almenningi berar og óþolandi.

Jeg kom til Íslands sumarið 1840, og aðal-tilgangur ferðar minnar var að kynna mjer þar fiskveiðar og fiskverkun. Jeg fór um nokkurn hluta vesturlands og suðurlands, og sá þar optlega í sumu þar að lútandi ranga aðferð, sem þarf bráðrar leiðrjettingar við, eins og ráða má af því, sem nú hefur sagt verið. Árið eptir fór jeg til Skotlands, Orkneyja og Hjaltlands, og kynnti mjer saltfisks-verkunina í öllum þeim löndum; styrkti það á allan hátt álit mitt á fiskverkun Íslendinga, svo jeg þykist nú því fremur fær um að fara hjer nokkrum orðum um það, sem rangt er í aðferð þeirra, og svo er varið, að bæði getur hver maður sjeð, að það er óhafandi, og er jafnframt grandgæfilega umflúið á öllum þeim stöðum, er jeg fyr gat um, sem þessvegna geta haft á boð-

stólum hollan og ásjálegan fisk, sem er í mestu metum í öllum katólskum löndum.

Það er nú auðvitað, að fyrst og fremst er heimtandi, að fiskurinn sje góð fæða, því annars kostar er hann óhæfur til sölu; en eigi hann jafnframt að vera álitlegur kaupeyrir og fullkominn í sinni tegund, þarf nokkuð meira fyrir honum að hafa, enn raunar er nauðsynlegt einungis til þess, hann geti orðið hollur og smekkgóður, því þá þarf einnig að kosta kapps um, hann geti orðið sem fallegastur útlits og hentugastur í öllum vöfum til flutnings og hleðslu í skipunum, og jafnframt hæfir þá að hafa hliðsjón af því, sem mönnum er geðfelldast á þeim stöðum, þar sem búast má við hann gangi bezt út, eða ætlað er að hafa hann á boðstólum. Nú til þess fiskurinn geti fengið þessa almennu kosti, er það aðal-reglan, sem mest ríður á, og mjer er óhætt að segja, sem aldrei skeikar, að salta fiskinn eða verka hann með hverju móti sem er, meðan hann er nýr, og því fyr sem þessu verður við komið, þess hægra fellur síðan á allan hátt að gjöra úr honum fullkomna vöru. En það lítur svo út, sem Íslendingar sjeu ófúsir á að kannast við, hversu mikið undir þessari reglu er komið, þótt jafnan beri að hafa hana fyrir augum. Aðferð þeirra er röng einkum í þessum greinum:

1. Þeir hirða ekki um það, sem vera ber, að ná úr fiskinum blóði og slori, undir eins og hann kemur upp úr sjónum, jafnvel þótt þetta tvennt sje allra hluta meinlegast fyrir verkun hans eptir á; það fer þó að líkindum, að eins og þessa er nákvæmlega gætt, þegar slátrað er ferfættum dýrum, muni það einnig vera nokkurs áríðandi við fisk, sem gjöra á að góðri og útgengilegri vöru. Sje höfuðið skorið af fiskinum lifandi, rennur vel úr honum blóðið; en sje hann ekki afhöfðaður fyr, enn hann er búinn að liggja dauður nokkra stund, kemur lítið sem ekkert blóð úr honum. Sje

fiskurinn slægður undir eins, fær ekki slorið tíma til að spilla smekk hans og gæðum, en liggi hann óslægður nokkra stund, fer aldrei hjá því, að hann dragi dám af óhreinindum innýflanna, að jeg ekki tali um, þegar garnirnar meirna, svo þær detta sundur, þegar fiskurinn er handleikinn, og óhreinindin ganga út í fiskinn, því þegar svo er komið, getur fiskurinn aldrei orðið góður matur, og hættir mjög við að skemmast, sje hann geymdur. Þessvegna ríður mikið á, að afhöfða og slægja fiskinn jafn-óðum og hann kemur upp úr sjónum. Englendingar, Hollendingar, Belgir og Frakkar, sem fiska við Nýfundnaland, kringum Ísland og Færeyar og í Norðursjónum (í Englandshafi og Jótlandshafi) og verka úr þorskinum tunnufisk *(Kabliau)*, gæta þessa svo nákvæmlega, og eru svo leiknir í því, að þeir afhöfða og slægja fiskinn meðan færið er aptur að renna til botns. Nú eru Íslendingar eins skjótir og lagvirknir, eins og hverjir aðrir, sem jeg hef sjeð til (og jeg hef þó sjeð til margra), í því að gera að fiski, og þeir ættu því hægt með að gjöra eins, svo verkunin gæti eptir á bæði orðið þeim ljettari, og tekizt miklu betur, enn ella. Á Hjaltlandi flytja menn aldrei til lands hvorki þorskhöfuð nje slóg[1], en gjöra allan fisk til jafn-óðum, og hann kemur innanborðs, og þessvegna er saltfiskur þeirra fallegastur af öllum þeim fiski, sem seldur er og keyptur um víða veröld. Það er hægt á Íslandi að sannfærast um, að þetta sje satt, ef menn vildu taka eptir því, sem alreynt er og dagsanna, að sá fiskur, sem veiddur er á þiljuskipunum og fluttur í land, til að verka úr honum saltfisk, verður miklu fallegri, enn sá fiskur, sem veiðist á íslenzka báta; og kemur það ekki til af neinu öðru, enn því, að sá, sem veiddur er á þiljuskipunum, er undir-

---

[1]) Það er ekki svo að skilja, sem jeg vilji ráðleggja Íslendingum að nota sjer ekki höfuð og lifur; því hægt er að gjöra það eins fyrir því, þótt þeir slægi á sjónum.

eins gerður til, og síðan flattur, þveginn og saltaður, eins fljótt og kostur er á. Sje þessa gætt, en meira verði ekki að gert, nema með skaðlegum tímaspilli, er gjörlegt að láta fiskinn liggja óflattan nokkur dægur, einkum sje dreift á hann smá-salti, og han sje ekki látinn liggja í of stórri kös.

2. Það er og rangt að Íslendingar fara of óþyrmilega með fisk sinn í fjörunni, þegar kastað er af skipi. Eigi fiskurinn að geta orðið góð og falleg vara, og halda sjer vel, þá er nauðsynlegt að hlífa honum, sem bezt má verða, við höggum og allskonar harðbráki meðan hann er nýr; því öll slík ómild meðferð veldur því, að sje hann borðaður nýr, reynist hann bæði lausari í sjer og lakari á bragðið; og eigi að verka hann og geyma, ber enn meira á, hvað hann hefur spillzt fyrir þessa sök. Því er miður, það er alvenja á Íslandi, að þegar fiskiskipin koma að landi, setja hásetarnir sig í röð upp eptir fjörunni, og nú er farið að kasta; fiskinum er þá fleygt af hendi fram í barka á skipinu, og þaðan aptur upp á land, og nú taka við 4 eða 6, og kasta fiskinum, hver frá öðrum áleiðis upp eptir grjótinu, þangað til hinn seinasti kastar honum í hrúgu einhvers staðar fyrir ofan flóðmál, þar sem á að skipta honum. Þessi aðferð er óhafandi, og því meinlegri, sem fiskurinn er óslægður. Jeg hef opt sjeð, að þegar stórum fiski er svona grýtt af hendi, rifnar kviðurinn, og innýflin falla út. Það má nærri geta, að í þessari meðferð muni allar smá-æðar í fiskinum slitna, innýflin rifna sundur, og blóð og óhreinindi ganga út í fiskinn, sem allur er marinn og kraminn. Sá fiskur, sem þessu hefur mætt, verður með engu móti verkaður; hvað vel sem hann er hirtur úr því, verður hann aldrei bragð-góður nje fallegur útlits, en skemmist fljótt ef hann er geymdur, og kemst aldrei í hátt verð, eða verður með öllu óútgengilegur. Sjómenn verða því aldrei of beðnir um, nje of ríkt lagt á við þá,

að færa afla sinn laglega í land, og gæta hans fyrir höggum og lemstri. Jeg ber ekki móti því, að bágt sje að forðast slíkt með öllu í sumum lendingum; en þó mundi víðast hvar meiga koma við börum eða vandlaupum („körfum"), ef viljinn væri góður; og ekkert ættu menn að spara til þess, slíkur skemmdar-siður yrði niður lagður.

3. Af því, sem jeg hef áður sagt, má sjá, að það er rangt, að fiskurinn — eins og opt ber við — skuli liggja lengi, fyr enn að honum er gert og hann kemur í salt eða er breiddur til þurks, og hvað sem við hann er gjört, þarf hann að koma nýr til verkunar. En að láta fiskinn liggja þangað til hann er farinn að úldna, það er ófyrirgefanlegur trassaskapur; heppnist að þurka slíkan fisk og hann komist saman við annan betri í vörubúr kaupmanna eða í skipafarma, þá getur hann spillt allri þeirri vöru, sem þar er saman komin; og setji menn hann ekki til kaupmanna, en haldi honum eptir til að borða hann sjálfir, eins og margur hefur sagt mjer í afsökunarskyni, þegar jeg hef talað um, að mjer þætti þeir ekki fara vel að, þá er mjer óhætt að segja, þeir hinir sömu brjóti mjög skylduna við sig og sína, með því að fyrirbúa þeim svo dauðans-óholla og vesala fæðu. Þegar með engu móti verður við komið að salta fiskinn undir eins, eða breiða hann út til þerris[1], ríður á því, hann liggi ekki úti í sólskini eða vætu, og ekki heldur í svó stórum hrúgum, að neðri fiskurinn fergist neitt töluvert; bezt er þá að geyma hann í hjalli, og sje hjallur ekki til, held jeg væri ráðlegt að þekja hann í þangi og halda honum svölum á þann hátt. Það ber opt við, að fiskur, sem menn ætla sjer að herða, verður ekki breiddur undir eins til þerris sökum votviðra, og þá sýnist mjer bezt að salta hann tafarlaust og gjöra heldur úr honum góðan saltfisk, enn ljelegan harðan fisk. Hjaltlend-

[1]) Jeg gjöri allt af ráð fyrir, búið sje að afhöfða hann og slægja.

ingar salta allan sinn fisk; því þeir segja, eins og satt er, þeir geti aldrei reitt sig á, að harður fiskur yrði þar góður, af því þar ganga svo opt þokur og vætur.

4. Fiskurinn er ekki ætíð þveginn svo vel og þrifalega sem skyldi. Fisk, sem á að herða, þarf ekki að þvo nema einu sinni, undir eins og búið er að fletja hann; en því nauðsynlegra er, að það sje gjört vel og vandlega. Þetta ferst nú samt stundum fyrir, því jeg hef opt sjeð fisk vera flattan og breiddan svo til þerris óþveginn (stundum með sömu afsökuninni: að menn ætli að borða hann sjálfir); en það er til mesta spillis, og eins fyrir því, þó menn hirði ekkert um, hann skuli verða myndarlegur útlits; vessarnir, sem í honum eru, gjöra hann bragð-illan, og hafi hann legið nokkra stund, fyr enn að honum væri gert, kemur á hann slepja og gjörir hann óhollan til fæðis. Sá fiskur verður allur dökkur útlits, þegar hann er hertur, heldur sjer illa, ef hann er geymdur, og er með öllu óútgengilegur. Saltfiskinn þarf að þvo tvisvar, eins og allir vita; en í fyrra sinni þarf að þvo hann eins vandlega, og þann fisk, sem herða skal, svo blóð og slepja og önnur óhreinindi gangi vel af honum, og pækillinn verði svo hreinn og tær, sem auðið er, þegar hann er kominn í saltið; því lakar sem þessa er gætt, því meir spillir það útliti hans og smekk. Seinni þvotturinn ætti raunar einungis að þurfa að vera til þess, að þvo af fiskinum pækilinn og taka úr honum mestu seltuna, en þá ber líka jafnframt að bæta um allt smávegis, sem kynni að hafa yfir sjezt í fyrra þvottinum. Þótt ekki verði hjá því komizt, þegar fiskur er þvegginn vandlega, að kreista hann nokkuð millum handa sjer, þarf samt að gjöra það mjög varlega, því annars kostar gengur úr honum of mikið af fisklíminu, og af því leiðir, að bæði dofnar fiskbragðið og fiskurinn verður nokkru þurk-vandari, enn ella. Það er gott við þvottinn, að hafa hárlínan bursta, eða mjúkan beitilyngsvönd

að strjúka með. Kvennfólkið er vant að þvo fiskinn á Íslandi, og hef jeg optast sjeð þær gjöra það í pollum í fjörunni; vera má, að það sje opt nógu handhægt, en hætt er við fiskurinn hafi ekki ætíð ábata á því. Poll-arnir eru optast svo litlir, að vatnið er orðið gruggugt undir eins og búið.er að skola í því einn fisk, og samt sem áður er haldið áfram að þvo 10, 20 og enn fleiri fiska á sama stað, þótt nærri megi geta, hvernig vatnið sje orðið, svo það er ekki ýkt, þó sagt sje, að flestir fiskarnir sjeu ekki þvegnir, heldur reknir ofan í skólp. Jeg held hverjum manni muni geta skilizt, að af slíkum þvotti standi ekki nema illt eitt fyrir útlit og smekk fisksins; og víst er um það, að þótt fiskurinn hafi verið vel hirtur þangað til, er þetta nóg til þess, að verkunin misheppnist. Það er því nauðsynlegt að þvo og skola fiskinn í hreinu vatni, og, verði því með nokkru móti við komið, að taka helzt til þess þá staði, þar sem straumur skiptir um það jafn-óðum. Enginn má búast við sjer heppnist að verka full-komlega hollan og góðan fisk, nema mesti þrifnaður sje við hafður, bæði í þvotti hans og allri annari meðferð.

Nú hef jeg talið það, sem einkum er aðfinningar-vert við fiskverkun á Íslandi, og er því öllu svo varið, að ráða þarf bætur á því, eigi íslenzkur fiskur að geta komizt í það álit, sem þörf er á og vera ber. Að vísu er enn margt annað, sem ýmislegt mætti að finna, við-víkjandi söltun, stakkstæðum, stakkagjörð, o. s. frv.; en þó sitt hvað sje ábóta-vant í þessum efnum, er ekkert af því samt eins áríðandi og hitt, sem talið er; og í þetta sinn kemst jeg ekki til að vera langorður. Samt get jeg ekki leitt hjá mjer að nefna, að jeg hef stundum sjeð fisk, einkum harðan, sem svarta himnan hefur ekki ver-ið tekin af þunnildunum á, og þó lýtir hún útlitið svo mjög, að slíkur fiskur fær varla nokkurn kaupanda, og kemst aldrei í fullt verð. Annað eins og þetta er tómt

hirðuleysi, og enn ófyrirgefanlegra er það, þegar menn vita, hversu það spillir verði á kaupvörunni.

Í því, sem hjer að framan er sagt, hef jeg einkum haft í huga verkun á þorski; en það á einnig í flestum greinum við allar aðrar fisktegundir, sem Íslendingar verka sjer til matar, því það er harðla áríðandi, að meiri þrifnaður og hirðusemi sje í þessu efni við höfð, enn tíðkanlegt er. Hákarl og skötu mun ekki vera lakara að grafa í jörðu (kasa þau) tvo eða þrjá daga, til að taka úr þeim mestu seigluna og lýsisbragðið; en að láta fiskinn liggja þar, þangað til hann úldnar, eða sælast til að kasta honum þar, sem mest getur safnast á hann af allskonar óþverra, það er, held jeg, nauðsynjalaust; og viðbjóðslegur matur verður það með þessu móti, og hættulegur fyrir líf og heilsu.

Víst er um það, að kaupmennirnir á Íslandi gætu miklu áorkað, til að koma af ósiðum þeim, sem jeg hef nefnt, og nokkra þekki jeg meðal þeirra, sem bæði bera gott skyn á slíkt og kosta kapps um það; en samt sem áður er sjálf endurbótin komin undir sjávarbændunum; því það eru — eins og jeg hef sýnt — sjómennirnir, sem fara rangt með fiskinn upphaflega, og engu verður til leiðar komið í þessu efni, nema þeir sannfærist sjálfir um, hversu áríðandi sje, að þeir breyti aðferð sinni, og ásetji sjer fastlega að gæta alls þess, er bætt fái fiskverkunina. Fyrirhöfnin er ekki mikil, og mest í því fólgin að geta fengið af sjer að segja: nú vil jeg það. Og mjer virðist, sem ekki þurfi langa umhugsun til slíks ásetnings, þegar á það er litið, að menn ávinna sjer með því móti bæði þann hagnað, að fiskurinn verður útgengilegri og kemst í hærra verð, og þá meðvitund, að menn hafi ekki af sjálfskaparvítum kveykt og aukið veikindi, og þá eymd, er þeim fylgir.

Sumum mun, ef til vill, þykja það kynlegt, að jeg hef einungis talað um ósiðina, og ekki jafnframt sett

reglur um alla fiskverkun, frá upphafi til enda; en bæði er jeg hræddur um, að þessi ritgjörð þyki orðin nógu löng, og mjer virðist það ekki heldur með öllu nauðsynlegt; vildi jeg einungis benda til þeirra bresta, sem ómissandi er að þegar sjeu lagfærðir. Verkun á saltfiski fer líka að mestu leyti fram undir umsjón kaupmanna (úr því hann kemur í saltið), og víðast hvar vel og reglulega; og til að færa sönnur á mál mitt, nefni jeg aptur fiskinn á þiljuskipunum, sem vanur er að verða góður kaupeyrir, af því fyrsta meðferðin á honum spillir ekki seinni verkuninni. Jeg læt mjer því nægja að draga hjer saman þær reglur, sem hafa þarf til að bæta úr því, sem að hefur verið fundið, og ef þeim er gaumur gefinn, má reiða sig á, að fiskverkunin heppnast vel, ef ekkert óhapp vill til að öðru leyti; en bregði menn út af, þó ekki sje nema einni þeirra, mun það sannast að illa fer. Jeg bið því fiskimenn á Íslandi að taka vel eptir þessum aðal-reglum, sem öll góð fiskverkun er undir komin.

1. Að afhöfða fiskinn og slægja hann jafn-skjótt, sem hann kemur upp úr sjónum.

2. Að fara varlega með hann í skipinu, þegar hann er fluttur af skipi, og allt af meðan á verkuninni stendur, og kasta honum aldrei, nje kreista hann og kremja óvarlega.

3. Að fletja hann eins fljótt og verður, þegar í land er komið.

4. Sjá um, að hann komist nýr í saltið, eða sje breiddur til þurks, eptir því, hvort úr honum á að gjöra saltfisk eða harðan fisk.

5. Að salta allan fisk, sem búinn er til verkunar, þegar lítur út fyrir óþurka.

6. Að þvo fiskinn og skola af honum vel og vandlega, þegar búið er að fletja hann, og

eins þegar hann er tekinn úr salti, og skipta um við hvern fisk, sem þveginn er.

Þannig læt jeg lokið þessum athugasemdum, og óska af alhuga, að þær fái góðar viðtökur á Íslandi. Ef svo reynist, að menn hafi fært sjer þær í nyt, mun jeg þykjast vel hafa varið því litla ómaki, sem jeg hef fyrir þeim haft.

*Sevedö* í apríl-mánuði 1844.

*Har. Vald. Fiedler.*

---

## FJALLIÐ SKJALDBREIÐUR.

(Ferðavísur frá sumrinu 1841.)

Fanna skautar faldi háum
fjallið, allra hæða val;
hrauna veitir bárum bláum
breiðan fram um heiðardal.
Löngu hefur Logi reiður
lokið steypu þessa við.
Ógna-skjöldur bungubreiður
ber með sóma rjettnefnið.

Ríð jeg háan Skjaldbreið skoða,
skín á tinda morgunsól,
glöðum fágar röðul-roða
reiðar-slóðir, dal og hól.
Beint er í norður fjallið fríða,
fákur eykur hófa-skell,
sjer á leiti Lambahlíða
og litlu sunnar Hlöðufell.

Vel á götu ber mig Baldur,
breiðkar stirðnað eldasund.
Hvenær hefur heims um aldur
hraun það brunað fram um grund?
Engin þá um Ísafoldu
unað hafa lífi dýr;
engin leit þá maður moldu,
móðu steins er undir býr.

Titraði jökull, æstust eldar,
öskraði djúpt í rótum lands,
eins og væru ofan felldar
allar stjörnur himna ranns;
eins og ryki mý eða mugga,
margur gneisti um loptið fló;
dagur huldist dimmum skugga,
dunaði gjá og loga spjó.

Belja rauðar blossa móður,
blágrár reykur yfir sveif,
undir hverfur runni, rjóður,
reyni-stóð í hárri kleif.
Blómin ei þá blöskrun þoldu,
blikna hvert í sínum reit,
höfði drepa hrygg við moldu —
himna drottinn einn það leit.

Vötnin öll, er áður fjellu
undan hárri fjalla þröng,
skelfast, dimmri hulin hellu,
hrekjast fram um undirgöng;
öll þau hverfa að einu lóni,
elda þar sem flóði sleit.
Djúpið mæta, mest á fróni,
myndast á í breiðri sveit.

Kyrrt er hrauns á breiðum boga,
blundar land í þráðri ró;
glaðir nætur glampar loga,
geislum sá um hæð og mó.
Brestur þá og yzt með öllu
í undirhvelfing hraunið sökk;
dunar langt um himinhöllu,
hylur djúpið móða dökk.

Svo er treyst með ógn og afli
alþjóð minni helgað bjarg;
Breiður þakinn bláum skafli
bundinn treður foldar-varg.
Grasið þróast grænt í næði
glóðir þar sem runnu fyr;
styður völlinn bjarta bæði
berg og djúp — hann stendur kyr.

Hver vann hjer svo að með orku?
Aldrei neinn svo vígi hlóð!
Búinn er úr bála-storku
bergkastali frjálsri þjóð.
Drottins hönd þeim vörnum veldur;
vittu barn! sú hönd er sterk;
gat ei nema guð og eldur
gjört svo dýrðlegt furðuverk.

Hamragirðing há við austur
Hrafna rýs úr breiðri gjá;
varna-meiri veggur traustur
vestrið slítur bergi frá.
Glöggt jeg skil, hví Geitskór vildi
geyma svo hið dýra þing.
Enn þá stendur góð í gildi
gjáin kennd við almenning.

---

Heiðabúar! glöðum gesti
greiðið för um eyðifjöll.
Einn jeg treð með hundi og hesti
hraun — og týnd er lestin öll.
Mjög þarf nú að mörgu hyggja,
mikið er um dýrðir hjer!
Enda skal jeg úti liggja,
engin vætt grandar mjer.

J. H.

---

## VÍTI.

(Eldgígur vestan undir Kröflu-fjalli.)

Bar mig á brenndum auri
breiðar um funa-leiðir
blakkur að Vítis-bakka,
blæs þar og nösum hvæsir.
Hvar mun um heiminn fara
halur yfir fjöll og dali
sá, er fram kominn sjái
sól að verra bóli.

Hrollir hugur við polli
heitum í blárri veitu,
Krafla með kynja afli
klauf fjall og rauf hjalla;
grimm eru í djúpi dimmu
dauða-org, þaðan er rauðir
logar yfir landið bljúga
leiddu hraunið seydda.

J. H.

---

## FREMRI NÁMAR.

Reið jeg yfir bárubreið
bruna-sund, en jódunur
(kalt var hregg og átt ill)
ýtum skemmtu dálítið;
holur nafar grjót grefur,
grunar mig að seint muni
Úlfur karl, þótt aur skjálfi,
ámur fylla úr þeim nám.

J. H.

## ALDARHÁTTUR.

(Kveðið á reið fyrir neðan Fróðá.)

Hingað gekk hetjan unga [1]
heiðar um brattar leiðir,
fanna mundar að finna
fríða grund í hríð stundum;
nú ræðst enginn á engi
(í ástarbáli fyr sálast),
styttubands storð að hitta,
stýrir priks yfir mýri.

J. H.

## FERÐALOK.

Ástarstjörnu
yfir Hraundranga
skýla næturský;

[1]) Björn Breiðvíkinga-kappi.

hló hún á himni,
hryggur þráir
sveinn í djúpum dali.

Veit jeg hvar von öll
og veröld mín
glædd er guðs loga.
Hlekki brýt jeg hugar,
og heilum mjer
fleygi faðm þinn í.

Sökkvi eg mjer og sje jeg
í sálu þjer
og lífi þínu lifi;
andartak sjerhvert,
sem ann þjer guð,
finn jeg í heitu hjarta.

Tíndum við á fjalli,
tvö vorum saman,
blóm í hárri hlíð;
knýtti jeg kerfi
og í kjöltu þjer
lagði ljúfar gjafir.

Hlóðstu mjer að höfði
hringum ilmandi
bjartra blágrasa,
einn af öðrum,
og að öllu dáðist,
og greipst þá aptur af.

Hlógum við á heiði,
himin glaðnaði
fagur á fjallabrún;

alls yndi
þótti mjer ekki vera
utan voru lífi lifa[1].

Grjetu þá í lautu
góðir blómálfar,
skilnað okkarn skildu;
dögg það við hugðum,
og dropa kalda
kysstum úr krossgrasi.

Hjelt jeg þjer á hesti
í hörðum straumi,
og fann til fullnustu,
blómknapp þann gæti
jeg borið og varið
öll yfir æfiskeið.

Greiddi jeg þjer lokka
við Galtará
vel og vandlega;
brosa blómvarir,
blika sjónstjörnur,
roðnar heitur hlýr.

Fjær er nú fagri
fylgd þinni
sveinn í djúpum dali;
ástarstjarna
yfir Hraundranga
skín á bak við ský.

---

[1]) Sb. Hávamál 98. er.

Háa skilur hnetti
himingeimur,
blað skilur bakka og egg;
en anda, sem unnast,
fær aldregi
eilífð að skilið

J. H.

---

## BÓKAFREGN.

Prentað á íslenzku 1844:

I. Í Kaupmannahöfn:

1. Skírnir, ný tíðindi hins íslenzka bókmentafjelags. Átjándi árgangur, er nær til vordaga 1844. Í 8. 136 og XXXVIII blss. (að fremsta blaðinu ótöldu). Kostar 32 skk. á prentp., en 48 á skrifp.
2. Ritgjörð um túna- og engjarækt, samin af Gunnlaugi Þórðarsyni. Gefin út af hinu íslenzka bókmentafjelagi. Í 8. 98 blss. (og 3 blöð fremst ótalin). Kostar 32 skk. á prentp., en 48 á skrifp.
3. Ný Fèlagsrit, gefin út af nokkrum Íslendíngum. Fjórða ár. Í 8. XII og 184 blss. Með andlitsmynd Finns Magnússonar etazráðs. Kostar 64 skk.
4. Almanak fyrir ár eptir Krists fæðíng 1845, . . . útlagt og lagað eptir íslendsku tímatali af Finni Magnússyni, Etatsráði og Prófessóri. Í 16. (16 blöð).
5. Opið Boðunarbréf með hvörju Íslands Alþíngismenn samankallast. (Kmh. 6. d. marz-mán. 1844. Íslenzkan er ½ bls. á óbrotinni örk.)

II. Á Íslandi:

1. Boðsrit til að hlusta á þá opinberu yfirheyrslu í Bessastaða Skóla þann 22-29 maí 1844. Viðeyar klaustri.
   1) Fjøgur gømul kvæði, útg. af S. Egilssyni (XII og 78 bls.)
   2) Skólaskírsla af *Lector Theol.* J. Jónssyni R. af Dbr. (30 blss. og ein tafla að auki).

Þessi fjögur kvæði eru: Harmsól, Líknarbraut, Heilags anda vísur, Leiðarvísan. Heilags anda vísur eru ekki annað, enn brot af kvæði; enda virðist vera lögð við þær minnst alúð; og er handritinu þar all-víða breytt, þó ekki sje þess við getið í útgáfunni.

Það er mikill skaði, að þetta boðsrit, og önnur þess kyns (t. a. m. Placídus-drápa, Ólafs-drápa Tryggvasonar, Ilugsvinnsmál, Forspjallsljóð) verða svo fáum kunnug; og væri það sjálfsagt enginn óhagur fyrir oss og tungu' vora, ef því yrði við komið, að senda slík boðsrit til allra háskóla í Norðurálfunni. Oss finnst jafnvel, sem það mundi vera til vinnandi, að semja þau á latínu fyrst um sinn, svo að sem flestir gætu haft not af þeim.

2. Sagan af Njáli Þorgeirssyni og Sonum Hans &c. Viðeyar Klaustri. Prentuð á kostnað Sekretéra O. M. Sephensens, 1844. I 8. 427 blss. (að ótöldu fyrirsagnarblaðinu og prentvillublaði aptan við). Selst óinnbundin á Prentpappír 1 rd. 40 sk. r. S.

Þessi Viðeyjar-Njála á að vera prentuð eptir Njálu þeirri, sem prentuð er í Kaupmannahöfn 1772. En sjaldan hefur tvennt sjezt ólíkara. Eldri Njála er ein með beztu útgáfum fornrita vorra; en þessi nýja er öll skæld og bjöguð frá upphafi til enda — sumt af hirðuleysi og vangá, sem við var að búast, en sumt af ásettu ráði. Orðin eru víðast hvar rituð upp á viðeysku, svo að sagan lítur nú út, að stafsetningunni til, eins og hún væri samin á dögum Sekretéra O. M. Stephensens; en

þó er á sumum stöðum hin eldri stafsetning við höfð, einkum þar, sem hún er vel forneskjuleg. Merði er gjört að Mørði (1[4]); og ætti eptir því að segja völli f. velli, kötti f. ketti, skjöldi f. skildi (af völlur, köttur, skjöldur), og fram eptir því. Hæingr (seinna Hængr, seinast Hængur) er látið vera Heingur (sjá 33[8]), eins og það væri dregið af hengja. Vjer tökum ekki fleira til dæmis; því það væri nóg til að sprengja þrjá tilbera, ef þeim væri skipað að tína það allt saman, sem afbakað er í Viðeyjar-Njálu. Það er hvorttveggja, að íslenzkar sögur eru sjaldan prentaðar á Íslandi; enda er bærilega frá þeim gengið, þá sjaldan það er gert!!

3. Ágrip af merkis atburðum Mannkyns Søgunnar, útlagt, aukið og kostað af Páli Melsteð, *Cand. philos.* Viðeyar Klaustri 1844. VIII og 336 bls. í 8. Kostar 1 rd.

Þar er litli *Kofod*, kominn á íslenzku! Opt höfum vjer dáðst að litla *Kofod* ekki því hvað góður hann væri, heldur að þessari helgu einfeldni *(sancta simplicitas)*, sem hann hefur til að bera fram yfir flestar mannkynssögubækur á sinni öld; þessvegna hefur oss aldrei komið til hugar, að hann mundi verða fyrsta mannkynssagan, sem snúið yrði á íslenzku og því síður, að honum mundi verða svo vel snúið, sem nú ber raun vitni. Vjer getum ekki skilið í, hvernig sami maðurinn getur haft svo gott lag á að snúa, og svo lítið vit á að velja, nema ef það kemur til af því — sem líklega verður að vera — að hann hefur ekki átt kost betri bókar á sagnalandinu; einkum þar eð hann mun ekki hafa viljað taka aðra bók, enn þá, sem væri stutt og hæfileg handa kennslupiltum. En hvernig sem því er varið, þá er nú að láta vel yfir því, sem orðið er, og taka fegins hendi við þessu ágripi mannkynssögunnar; því það er þó skárra enn *Galletti* eða alls ekki neitt,

og væri því óskandi, að hver, sem efni hefur á og tóm til, ljeti sjer annt um að eignast bókina og kynna sjer það, sem í henni stendur.

Og þó ekkert væri annað, enn þessi viðleitni að koma út einhverri nýrri og þarflegri bók, þá er það undir eins góðra gjalda vert, einkanlega á voru landi, þar sem þess háttar tilraunir eru svo fágætar. Þar á ofan hefur herra Páll unnið til þakklætis með öðru, sem ekki er algengara: hann hefur með orðfæri sínu búið vel í haginn fyrir þá, er seinna kynnu að snara á íslenzku einhverri annari mannkynssögu; því oss lízt orðfærið nærri komast til jafns við það, sem bezt hefur verið skráð á íslenzku, síðan máli voru var fullhnignað. Það er æfinlega einkenni á góðu orðfæri, að þau lýti, sem á eru, liggja laus utan á, eins og ryðið á hinum góðu sverðum í fornöld, og svo er einnig um orðfæri á bók þessari. Vjer höfum lesið fremstu blöðin nokkurn veginn nákvæmlega, og viljum nú geta þess helzta, er oss finnst að öðruvísi mætti betur fara á þeim blöðum, í orðfæri og öðru. Vera kann að mörgum þyki aðfindni vor heldur smásmugleg, en ekki kvíðum vjer því samt af þeim, sem mestan á hlutinn að, heldur þykjumst vjer vita fyrir víst, að hann muni hafa það af bendingum vorum, sem honum skilst vera nokkru nýtt, ef það kemur fyrir hann að láta prenta bókina í annað sinn, og sljetta yfir ójöfnur þær, sem á kunna að vera, og fyrir þá sök þykir oss mein að, er vjer megum ekki færa það allt til, sem oss finnst að lagfæra þyrfti. Stafsetning er ekki alstaðar rjett eða sjálfri sjer samkvæm, en sumt af því er að kenna Viðeyjarletrinu — eða Reykjavíkurletrinu, sem nú er orðið. Fláir (eða breiðir) hljóðstafir í upphafsletrinu eru ekki greindir frá hinum grönnu, eins og þess þurfi þar síður við, enn í hinu smáa letri; heldur er prentað: Ágrip VI[4], Í fyrstu V[8], Íslendíngar

V[19], Olafs VII[3], o. s. frv. Verst fer á þessu í Austerliz (VIII[4]) f. *Austerlitz*. Í smæsta letrinu á VII. og VIII. blaðsíðu formálans og í athugasemdum, vantar einnig í. é (t. a. m. í mér, sér) ætti heldur að vera è, og þó allraheizt je. — Fyrir framan ng og nk, þar sem n og k eru í sömu samstöfu, ætti að láta eitt ganga yfir alla raddarstafi [1], og rita leingi, teingja, o. s. frv., úr því ritað er áng, íng, úng, ýng, aung; sjá 7. ár Fjölnis á 75. bls. Sumstaðar (t. a. m. í kénna V[17]) er settur broddur yfir e fyrir aptan g eða k í sömu samstöfu. Fornafnið hver, hvert er afbakað í hvör, hvört, eins og vant er í þeim bókum, sem á Íslandi eru prentaðar. Ve (í Vefréttin 15[8]) ætti að vera vje; því góðar fornbækur hafa stundum vie; og framburðinn nú á dögum er ekki að marka í því orði, þar eð það er tekið upp úr bókum, en hefur ekki haldizt í tali fram á vora daga. Fyrir i er ritað y á sumum stöðum: yndæla (1[9]) á að vera inndæla (7. ár Fjöln. á 95. blaðsíðu); ydradi (9[20]) á að vera iðraði[2]; hyrdara (í athugasemd á 3. bls. og 8[12]) á ekki að rita með y, eins og *Hyrde* á dönsku, heldur með i, eins og *Hirt* á þjóðversku (þannig er líka ritað á 12. bls. neðst); drottnunargyrni (8[7]) á að vera drottnunargirni (því ja í gjarn er ekki annað, enn klofið i); Egyptaland (2[20]) og egypzkur (9[12]) er ritað með i í hinum íslenzku fornbókum (en þó með y í AM. 619 í 4, sem mun vera norræn). Á öðrum stöðum er i sett fyrir y, t. a. m.: strikist (VII[28]) f. strykist, mindaletrinu (12[24]) f. myndaletrinu. Sömuleiðis er ritað i fyrir ý í skírir (fræði sú er skírir frá enum helztu atburdum 1[2])

---

[1]) nema þar sem tekið er úr orði, t. a. m. í kóngur (þegar það er haft) f. konungur.

[2]) iðrast mun annaðhvort vera dregið af inn (sb. iðr = innýfli) og merkja þá upphaflega að „komast við innanbrjósts", eða af ið (í iðgjöld) og merkja upphaflega að „endurminnast".

og tína (tína lífi 7[8], tíndist mestur hluti liðsmanna hans 16 neðst); því týna = missa (af tjón) er ekki sama orð, sem tína = lesa, og hitt orðið (skíra, skýra) hefur ý, þegar merkingin er andleg, en í, þegar hún er líkamleg (sjá fornbækurnar). Orðið leifi (9[20]) er einnig misritað fyrir leyfi. Sögnin ega V[10] og VII[1] á að vera eiga. Samhljóðandi fyrir framan samhljóðanda er hafður tvöfaldur víðast, þar sem uppruni krefur (kennsla af kenna o. s. frv.; sjá 7. ár Fjölnis á 75. bls); en þess er ekki alstaðar gætt, heldur finnst kendar (10[6]), grend (10[1] — sb. granni), mentun (12[8] af mann-, — sb. mannast og mannaður), misti (VII[9]), fjallbygdum (2[26]), bygdu (7[11]). Viðeyar (á fyrirsagnarblaðinu), eyu (5[17]) og því um líkt er með öllu rangt, úr því ekki er skrifað eptir framburði, og á að vera Viðeyjar, eyju, eins og heljar, helju, o. s. frv. Um allstaðar (14[8]) sjá 7. ár Fjölnis á 81. bls.; um fyrr (2[23]) og orrusta (11[4]) sjá sama ár á 81. bls. neðan til og 89. ofan til; hærsti (sá hærsti var 180 feta hár 13[24]) er hvorki ritað eptir framburði nje uppruna: menn segja hæðsti, — en meginhluti orðsins er há, og eptir því á að rita hæsti. Í myrdti (7[27]) virðist d vera of sett. Um pt og ft er sú regla helzt við höfð í öðrum bókum, að rita ft, þegar meginhluti orðsins hefur f að niðurlagi, og t bætist við í breytingunni, t. a. m. haft af hafa, en pt, þegar báðir stafirnir eru í meginhluta orðs, og standa saman í öllum breytingum þess, t. a. m. hapt (á hesti); en hjer er stundum horfið af þeirri reglu, og t. a. m. ritað gift (7[26]), skift (8[15]). — Þar sem t er fellt úr í framburðinum á undan s, er stundum ritað eptir því, sem *Rask* hefur ráð fyrir gjört, t. a. m. egypzkur (9[12]), en stundum ts, t. a. m. Egyptskra (9[3]). Í þolandi hluttekningarorðum liðins tíma er t (eða ð) venjulega sleppt með öllu, t. a. m. varist (5[5]), komist (6[20]), mælst (8 í athugasemd, f. varizt, komizt, mælzt); þó er (t. a.

m. 4[12]) ritað settst, en ekki setst. — purpuran (6[17]) á að vera purpurann. — Þar sem orð stýrir eiganda af öðru orði og hefur þann eiganda fyrir framan sig, er opt illt úr að skera, hvort þau eru heldur eitt eða tvö orð; þó mun mega hafa það að marki um, að þau sjeu eitt orð, ef eigandinu verður ekki settur aptur fyrir, og því ætlum vjer merkisatburðum vera rjettara enn merkis atburdum (á fyrirsagnarblaðinu), mannkynssögunnar rjettara enn Mannkyns Søgunnar (á sama blaðinu), Viðeyjarklaustri rjettara enn Videyar Klaustri (á sama stað), *Tigris*-ár rjettara enn Tígris ár (2[17]), Babílónsborg rjettara enn Babylons borg (3[8]), borgarmúrarnir rjettara enn Borgar múrarnir (3[12], 5[3]), konungshöll rjettara enn konúngs høll (og lét gjøra konúngs høll í borginni 6[1]), af því menn geta ekki sagt atburðum merkis, sögunnar mannkyns (þó hitt sje rjett að segja sögu mannkynsins), klaustri Viðeyjar, ár *Tigris* (þó árinnar *Tigris* væri rjett), borgar Babílóns, múrarnir borgar, höll konungs (því það er sama og höll konungsins, og á ekki við á þessum stað). helgi høld (13[22]) ætti því heldur að rita í einu lagi, að ekki er víst, hvort helgi er eigandi eða sjálfur meginhluti orðsins, og hengi gardar (3[20]) getur ekki verið tvö orð, af því hengi er merkingarlaust út af fyrir sig. Fyrir jafn dýrt (6[19]) væri sjálfsagt rjettara að rita jafndýrt (eða þó heldur jafn-dýrt); því jafn er hjer meginhluti, en ekki fall. — Aptan við tölustafi, sem merkja *numerum ordinalem* (raðtölu?), á að vera depill (punktur), eins og *Rask* hefur til ætlazt, en þess er ekki gætt í bókinni (sjá t. a. m. leiðrjettingar á VII-VIII.).

Setningu greinarmerkjanna er í sumu áfátt. Á sumum stöðum stendur komma í miðri grein: ega landar mínir, Landaskipunarfræði Sra. Gunnlaugs (VII[1]); frásagnir um þau og stjórn þeirra, eru mjøg svo á sundr-

úngi[1] ([29]); Af øllum nýlendum Fønisíumanna, er eingin svo vídfræg ordin (7[21]); o. s. frv.; einkanlega fyrir framan og (þó það samtengi ekki nema einstök orð), t. a. m. Herra Páli Melsted, ....., Kammerrádi, og Riddara af Dannebroge (III[4]), og fleira þess kyns. Einnig virðist oss þetta sama greinarmerki (,) of sett fyrir framan lausa-grein, sem hleypt er inn í málið milli sviga eða stryka, þar sem efni hennar hallast að því, sem á undan fer, t. a. m. hafi hann .... byggt .... Niníve, (hérumbil 2000 árum fyrir Krists burd) (2[18]); Í Medíu var sá madur, (700 árum f. Kr. b.) er Dejóces hét (5[22]; hjer ætti merkið að standa fyrir aptan svigagreinina). — Á hinn bóginn vantar all-víða smágreinamerkið, þar sem það ætti að standa: Vildi þá annadhvørt eda (ætti að vera: annaðhvort, eða) jafnvel hvorttvegja fara (ætti að vera: hvorttveggja, fara) í ólestri (V[14]); hvørki þóttist eg vera, .... fær um ad semja laglegt ágrip, .... af søgu vorri — misti (ætti að vera: vorri, — missti) líka í vetur, þegar hjá mér brann, nokkur blød þar ad lútandi —vissi og ad (ætti að vera: lútandi-, vissi og, að) margir ega Sturlúngu (VII[10]); Allt lýtur ad því ad (ætti að vera: því, að) Assýríu ríki (2[13]); o. s. frv.; — einkanlega fyrir framan tilvísunarorð *(relativa)*, t. a. m. ad þeir sem ekki kunnu dønskuna, urdu ad vinna twø verkin í einu (V[12]; efnið leyfir ekki að setja greinarmerkið fyrir aptan- dønskuna, nema annað sje sett fyrir aptan þeir); flestar þjódir í heiminum sem nokkrar talsverdar søgur hafa geingid af (VI[13]); søgum þeim er þeir ritudu (V[20]); nokkur bók á íslenzka túngu er heita megi veraldarsaga (VI[2]); mér þókti ágripid vesna þegar aptur í þad sókti (VI[25]). — Á sumum stöðum er högg haft fyrir depilhögg (;): Systur átti hann er Dídó hét, hún var

[1]) Betra væri frásagnir um þau, og stjórn þeirra, eru mjög svo á sundrungu; en bezt væri að hafa hjer ekkert greinarmerki.

gift (7[25]; fyrir: hann, er D hjet; hún var gipt); einkanlega fyrir framan smá-orðið en, t. a. m. VI[32] og VII[7]. Á einum stað (fyrir víst) er depilhögg sett fyrir högg; Þeir .... urðu að vinna tvø verkin í einu; bæði læra málið og søguna (V[13]). Þessi orð: Borgar múrarnir voru eitt af furðuverkum heims, þeir voru svo breiðir, að hæglega mátti aka 6 vøgnum samsíða uppi á þeim. En á hæð voru þeir 288 feta (3[12-14]) ætti heldur að greina þannig í sundur: Borgarmúrarnir voru eitt af furðuverkum heims: þeir voru svo breiðir, að hæglega mátti aka 6 vögnum samsíða uppi á þeim; en á hæð o. s. frv., og á 8[5] má ekki vera depill fyrir framan Og, af því höfuð-orðið *(subjectum)* stendur þar fyrir framan.

Mynd eða lögun orða er á sumum stöðum röng eða óviðkunnanleg akkeri (7[10-11]) á að vera akkeri (sb. *ancora* á lat, *Anker* á þjóð. og dönsku); hyrðari (í athugas. á 3. bls. og 8[12]) er ekki nærri því eins gott, og hirðir; niðjar (1[18]) ætti að vera niðir; sundrúngi (2[10]) fer ekki eins vel og sundrungu; smyrðlingur (13[14]) er illa búið til (enda er sett við það spurningarmerki); ættkvíslar (8[16], í þol. fleirt.), f. ættkvíslir, er of forneskjulegt. Að hneigja karlkynsorð, sem hafa ir að niðurlagi í gjör. eint., eins og gjört er í leiðarvísir (7[6]), er að sönnu öldungis rjett eptir því sem nú tíðkast; en væri þó ekki rjett, að hverfa þar til hinnar eldri myndar? því ekki verður það varið, að hún er miklu fegri, einkum í fleirt., sem hjer má sjá:

| | fornt: | nýtt: |
|---|---|---|
| | eint.: | |
| gjör. | hellir | hellir |
| þol. og þiggj. | helli | hellir |
| eig. | hellis | hellirs. |

| | fleirt.: | |
|---|---|---|
| gjör. | hellar | hellrar |
| þol. | hella | hellra |
| þiggj. | hellum | hellrum |
| eig. | hella | hellra; |

og er þó fleirt. enn þá ljótari í öðrum orðum, þar sem i er ekki sleppt, t. a. m. vísirar, vísira, vísirum, vísðari er ekki eins gott og vísari, að minnsta kosti eins og á stendur 16[28], smámsaman (8[23] og víðar) er óviðkunnanlegra og ekki rjettara, enn smásaman (f. smáu saman). Um enn (t. a. m. V[15]) = hinn og hvoru- (t. a. m. hvorutveggi VII[27]) sjá 7. ár Fjölnis á 79. og 81. bls. hvørutveggja (hvørutveggja þenna varníng 6[18]) er þrefaldlega rangt: 1) u fyrir u; 2) ö fyrir e; 3) e fyrir o, úr því hver og hvor eru sumstaðar greind í sundur á annað borð. Um væri (3[19]) fyrir væru og réði (4[19,20]) f. rjeð sjá 7. ár Fjölnis á 78. og 88. bls. — Örnefni og nöfn landa, borga og þjóða eiga að vera íslenzk, þar sem þau eru til nýtileg, forn eða ný, og því er rjett að hafa Sætt (6[15]) fyrir *Sidon* o. s. frv.[1]; en þar sem ekki er völ á íslenzku nafni, mundi vera bezt að láta hið útlenzka óbjagað, ef þess er kostur (en geta framburðarins á milli sviga, þar sem þurfa þykir), og fyrir þá sök getum vjer ekki fallizt á, að rita Ekbatønu (5[28]), eða því um líkt, og enn síður Delfis (sem er hálf-íslenzkt og hálf-latínskt, 21[12]), Troëzene (24[15]; á grísku Τροιζήν, á lat. *Troezen* — en ekki *Troëzén*). Þjóðarnafnið Indar (4[5]) er ekki eins gott og Indir, eða Indur (eins og Vindur). Føniskír (6[11]) er illt orð, þó ekki væri annað, enn endingin iskur er ekki íslenzk. — Útlendum mannanöfnum ætti

---

1) Evfrat (3[16]) á að vera Frat; því fljótið heitir því nafni á vora tungu, og þar að auki virðist það nafn vera upphaflegra, enn hið gríska og rómverska.

alls ekki að breyta frá þeirri mynd, sem þau hafa í gjör. eint. í frummáli sínu [1], nema þar sem nauðsyn er á að setja s aptan við í eigandanum; þess vegna finnst oss ekki rjett að rita Ninyasi, Semíramisí, Semíramisar, Kambysesar, Psammenítusar, Menonar (sem þar að auki ætti heldur að vera Menóns), Tevser, (f. *Teukros*), Hómerus (sem er hálf-íslenzkt og hálf latínskt). *Odusseus* heitir ekki rjettu nafni Ulysses ($19^{22}$) á latínu, heldur *Ulixes*. Briseidur ($18^{6}$) lætur að sönnu íslenzkulega í eyrum; en villir þó, af því *Briseïs* er = dóttir *Briseus*.

Gallarnir á orðfærinu lýta hjer meira, og eru augljósari, enn í öðrum bókum, af því öll undirstaða þess (ef svo má að orði komast) er hjer sögulegri; og fyrir þá sök erum vjer nokkru aðfinningasamari, enn vjer mundum annars kostar. Flest allt, sem óprýðir þessa bók, eins og aðrar íslenzkar bækur á vorum dögum, að orðfærinu til, kemur annaðhvort til af því, að menn láta leiðast eptir dönsku, ellegar af hinu, að menn rangminnir til, hvernig vant er að taka til orða á rjetta íslenzku; en lesendur vorir munu bera skyn á, hverrar tegundar hvað er, þó vjer skiptum ekki orðatiltækjunum í flokka, og tökum það fyr, sem fyr stendur. Kostar 1 rbd., í kápu (á fyrirsagnarbl.) fer ekki eins vel og Kostar í kápu 1 rbd. — af því bókin er í kápu, en ekki dalurinn. Í Fyrir rúmu ári síðan ($V^{2}$) er orðinn síðan ofaukið. søgubók ($V^{3}$) er ekki viðkunnanlegt um þá bók, er mannkynssagan er á, af því sögubók merkir annað á íslenzku. Bókin er ætluð úngum mønnum, og þeim, sem skammt eru á veg komnir í veraldarsøgunni ($V^{6}$); hjer vantar öðrum fyrir aptan þeim. máské ($V^{16}$); sjá 7. ár Fjölnis á 84. bls. Orðfæri á bók er kallað

[1] Þar sem ekki verður komizt að frummáli eiginlegra nafna (*nominum propriorum*), hvort sem eru manna nöfn eða önnur, yrði að láta þau halda þeirri mynd, sem þau hafa í því máli, þar sem þau finnast fyrst.

málid (VI6). jeg skyldi aldrei trúa því (VI6) f. **jeg mundi ekki trúa** því **eða jeg gæti ekki trúað** því **eða jeg tryði** því **með engu móti**. eg hafdi tekid eptir því, ad (V11-12) hlýtur að vera sett í aðgáningsleysi; því það þarf ekki mikla eptirtekt til að sjá, að hver, sem á að lesa eitthvað á þá tungu, er hann skilur lítt eða ekki, verður að nema tvennt í einu — málið og efnið. nefna einhverjum eithvað (VI14) f. **nefna eitthvað fyrir einhverjum**. hefi eg haldid áfram í sama anda (VI18) f. **hef jeg haldið áfram sömu stefnunni** eða eithvað þess kyns (sb. „**of it sama far**" í upphafinu á Íslendingabók). Eg hefi . . . vikid frá Kofods ágripi (VI20) f. **jeg hef . . . yfirgefið** (þó **yfirgefa** sje nýlegt) **ágrip** *Kofods*. svo gagn yrdi ad, nema til ad gjøra bókina dýrari (VI28) f. **svo það yrði til annars, enn gjöra bókina dýrari**. álít VII13), á dönsku *anseer*, f. **hygg** e. **ætla**. Gamla Sagan (I1) ætti að heita **Fornaldarsagan**. Veraldarsaga (I2) er ekki eins gott og **mannkynssaga**, sem auðsjeð er á sjálfu námi orðsins (á sama stað). með . . . fögrum ortum (I6) er heldur lítið, og fer ekki eins vel og **fagurlega**. sumir gjørdu þarflegar uppgøtvanir (I12) finnst oss dönskulega orðað (sb. *at gjöre Opdagelser* á d.), og mætti komast hjá því, með því að segja: **sumir fundu þarflegar íþróttir**. á ný (I17-18) f. **að nýju** (s. 7. ár Fjölnis á 84. bls.; ný merkir **nýtt tungl**). Í Hin elztu ríki voru ad øllum líkindum í Austurálfu heims (27) er voru fyrir **hafa verið** (sb. 7. ár Fjölnis á 9415). **byggja** er (t. a. m. 216, 517, 711, 82) haft fyrir **setja** eða **reisa** eða **gjöra**; slikt hið sama er **bygging** (42, 1114) haft fyrir **hús**, eins og *Bygning* á dönsku, (sbr. 7. ár Fjölnis í 2. athugasemd á 94. bls.). Í hafi hann . . . byggt eina ágæta borg á Tígris ár bøkkum, er hann nefndi eptir sér (217) ætti heldur að standa og **nefnt eptir sjer**; því náttúrlegast er að láta tilvísunina *(relativum)* benda á

það nafn (eða fornafn), er næst fer á undan. klifra þar uppí borgina sem hamrar væru mestir að henni, en minnst væri manna vørn fyrir (3[1]); fallegra mundi vera sem mestir væru hamrar að, en minnst manna-vörn fyrir. Nínus fylgdi þessu ráði (3[2]) ætti heldur að vera Nínus tók þetta ráð eða eitthvað því um líkt. Í sá er nefndur Nimrod er fyrstur reisti hana (3[9]) ætti hana heldur að vera þá borg; sjá 7. ár Fjölnis á 91. bls. Kastalar á borgarveggjum eru kallaðir virki (3[15]). Til voru þau stræti í borginni er 3 mílur væri á leingd (3[19]) er ekki eins gott og: Í borginni voru þau stræti sum, að 3 mílur voru o. s. frv. húsin eru ekki áføst (í athugasemd á 3. bls.) f. samföst (þ. e. áföst hvert við annað). pláts (í athugasemd á 3. bls.) f. rúm eða svæði. Til þess að koma Indum á þá trú (?), að hún hefði fíla (4[6]) er einhvern veginn snubbótt, og mætti bæta einhverju við, t. a. m. í hernum. endir var gjørður á ríki þessu (4[14]) finnst oss vera dönskulegt (sb. *at gjöre Ende paa noget)* í búri kvenna sinna (4[18]) f. í kvennabúri sínu. Ain gékk yfir bakka sína (5[2]) finnst oss hálfdönskulegt. Svo er sagt að Nebukadnesar yrði vitstola, eða, eins og ritníngin kemst að orði, fyrir sakir ofmetnaðar síns hafi orðið að villidýri (5[19-21]) finnst oss heldur ætti að vera orðað á þessa leið: Svo er sagt í helgum ritningum, að N. yrði að villudýri fyrir sakir ofmetnaðar síns; en það er svo að skilja, að hann hafi orðið vitstola. ráða bætur á einhverju er betra, enn ráða bót á einhverju (5[26]). halda á lopti (6[8]) er að minnsta kosti ekki eins algengt og halda á lopt. Þeir (6[13]); hjer væri betra, að taka upp þjóðarnafnið, af því Englismenn eru komnir inn á milli. finna (purpuran 6[17], leturgjørð 8[9], Pergament 13[26]) upp mun vera danskt; á íslenzku er finna (tómt) haft í sömu merkingu. saltpéturs mola (6[25]). Þá saltpéturinn bráðnaði (6[26]) f. þá er o. s. frv. þannig

var glerid fundid (6 neðst) f. þannig fannst (eða fundu menn) glerið. að þeir hafi farið í Austurveg (7[16]; hjer ætti heldur að standa Eystrasalt, af því Austurvegur er haft um fleira, t. a. m. í austurvegs-konungar. rauda hafid (7[18]) f. hafið rauða. Afríku (8[1]) f. Suðurálfu. Þjód þessi lifdi (f. var?)... undir svo nefndri fedrastjórn (f. undir feðrastjórn, sem kölluð er[1]), voru þeir Abraham, Isak og Jakob þeirra helztir (f. helztir- eða æðstir- allra höfuðfeðra) 8[12–14]. þraungva kostum Israels manna (8 neðst); hjer er kostum sett fyrir kosti. mannskerkir (9[2]) f. fjölmennir. Egyptskra (8[3]) f. egipzkra manna e. Egiptalandsmanna e. Egipta (Egiptir í gjör). karfa (9[7]) heitir á ísl. vandkaupur (vöndr = tá). fá einhvern til einhvers (9[18]) f. koma einhverjum til einhvers; þó væri hjer fallegra að snúa greininni dálítið við og komast öðruvísi að orði. 40 ár (9[26]), 3000 herbergi (15[4]); fallegra væri að láta eigendur (ára, herbergja) fylgja tugunum. nágranna þjódanna (10[11]) f. þeirra þjóða, er bjuggu í grennd við þá. Æðsti presturinn (11[3]); væri ekki Yfirpresturinn viðkunanlegra — ef ekki má kalla hann yfirbyskup, eins og gjört er í fornum bókum? Fadir minn bardi ydur med svipum, en eg mun gjøra þad med sporddrekum (11[24]) f. faðir minn barði yður (með) svipum, en jeg mun berja yður sporðdrekum. Israels ríki var yfirunnid (12[1]) f. Israelsríki var unnið. móda (12[10]) finnst oss ekki eiga við, nema um straumlausar ár og ákaflega breiðar. merkurnar (12[18]) f. akrana eða ekrurnar, eins og á d.; mörk á ísl. er = skógur. var en egyptska þjód greind í ýmsa flokka (12[19]); væri ekki betra að hafa hjer stjettir? af enum fyrrnefnda flokki (12[21]) merkir að rjettu lagi af þeim flokki, er fyr (þ. e. áður) var nefndur; hjer ætti að standa af hermannastjettinni. tvenn-

[1]) Svo nefndur hefur á sjer hræðilegan dönskusvip.

slags (12 neðst) f. tvennskonar; því *slags* er danska. hvørt sem hann svo var fær um það edur ekki ($13^5$); atviksorðinu svo er hjer ofaukið á vora tungu. Sálnaflakk ($13^9$) er ekki fallegt orð, og hefði vel mátt sneiða sig hjá því. eitt edur annað kvikindi ($13^{10}$) f. eitthvert kvikindi. að rotnan feingi eigi unnið á þeim ($13^{11}$) finnst oss ekki fara eins vel og að eigi fengju rotnað. ferhyrndir ($13^{17}$, $^{22}$) er haft fyrir ferstrendir. Pergament ($13^{26}$)f. bókfell. hvar (13 neðst), sem tilvísunarorð, fyrir er. afgrunn ($14^{25}$) er undirdjúp á ísl. sá sem offraði af koparskál ($15^9$); offra er ekki eins gott og færa fórnir. musteris ($15^{10}$) f. hofs; musteri er ekki haft um goðahús. offurkér ($15^{12}$) f. fórnarker e. blótskálir (eða blótbolla). rekinn frá ríkjum ($16^2$) f. rekinn frá ríki. Amasis, er í fyrstu var málamaður ($16^3$); hjer er málamaður (af máli) ógreinilegt; liðsmaður væri skilmerkilegra. brúkuð ($16^{13}$) f. höfð. svo ($16^{15}$) f. síðan. gifti sig grískri konu ($16^{19}$) f. gekk að eiga gríska konu. á døgum Psammenítusar sonar Amasis konúngs ($16^{23}$) f. *Psammenitus* konúngs, sonar *Amasis;* því þess er áður getið um *Amasis,* en ekki um *Psammenitus,* að hann hafi konungur verið.

Efnið — eða rjettara að segja meðferð efnisins í mannkynssögu þessari ætlum vjer öldungis að leiða hjá oss. Í formálanum ($VII^3$) er landaskipunarfræðin eptir *Platou* eignuð sjera Ólafi Pálssyni.

Að endingu óskum vjer þess, að það sje meir, enn hugarburður einn, það sem höfundurinn segist vona, að saga Íslendinga sje í vændum frá þeim manni, sem hann hyggur færastan að semja hana, og trauðlega getur verið nokkur annar, enn *Doctor* Sveinbjörn Egilsson. Saga vor er að vísu heldur ósöguleg, þegar aptur í sækir, og þjóð vorri til lítillar sæmdar; en í þesskonar efnum má ekki satt kyrrt liggja; heldur er nauðsyn á, að segja hverja sögu, og segja hana eins og hún gengur.

4. Sjø Føstu-prédikanir sambar af Olafi Indridasyni Presti til Kolfreyustadar. Videyar Klaustri. Prentadar á kostnad Hofundarins. Í 8. 108. blss. Seljast óinnbundnar á Prentpappír 32 ß r. S.
5. Æfintýrid af Selikó og Berissu tilfallid árid 1727. Snúid úr Frønsku máli á Íslendsku af *Dr.* Hallgrími Scheving. En á Ljódmæli snúid af Hallgrími Jónssyni 1840. Nokkud aukid af Landaskipunarfrædinni og þeim Fetisku trúarbrøgdum Sudurálfunnar, til frekari upplísingar fyrir fáfródari. Videyar Klaustri 1844. Í 12. 58 blss.
6. Skírsla um Flateyar Framfarastiptun géfin út af núverandi stýrendum hennar. Ønnur deild. Videyar Klaustri, prentud á kostnad stiptunarinnar 1844. Í 4. 14 blss.
7. Auglýsing um Vestur-amtsins Búnadar-sjód fyrir Árin 1841, 1842 og 1843, útgefin af stjórnendum ens sama Konferentsrádi og Amtmanni B. Thorsteinson Riddara af Danabrog og Danabr. manni og Sýslumanni A. Thorsteinson í Snæfells Sýslu. Videyar Klaustri. Prentud á Sjódsins kostnad 1844. Í 8. 16 blss.
8. Stutt ágrip af Biblíusøgum handa Unglíngum. Samid af S. B. Hersleb, Kénnara í gudfrædi vid háskolann í Kristjaníu í Noregi. Lagt út úr Dønsku. Ønnur útgáfa lagfærd. Prentad á kostnad hins íslenska prentverks. Reykjavík 1844. Í 12. VI og 158 blss. Kostar óinnbundin 28 sk.
9. Ljódmæli Sigurdar Péturssonar Sýslumanns í Kjósar sýslu og Héradsdómara í Gullbringu sýslu frá 1789 til 1803. Reykjavík 1844. Prentud á kostnad Egils Jónssonar. Í 8. 299. blss. (og tvö blöd ótalin fremst). Kostar í kápu 56 sk.
10. Skýrsla um Sudur-Amtsins Húss- og Bú-stjórnar félags athafnir, ástand og fjárhag til September mánadar 1844. Reykjavík 1844. Í 8. 15 blss.

11. Stafrofskver handa Börnum, samið af Pétri Guðjónssyni Skólakénnara[1] og organista. Reykjavík 1844. Kostar í kápu 12 sk. 48 blss. í 12.

Hver, sem ber þetta stafrofskver saman við þau, er Íslendingar eiga áður, getur ekki annað, enn lagt þann dóm á, að það fari svo fjærri, að þetta kver taki hinum fram, að það sje til einskis nýtt, og til ills eins, og betur það hefði aldrei verið prentað; því þó lítið sje skráð og prentað á íslenzku, þá er samt nóg af þesskonar bókum, sem einungis eru þjóðinni til minnkunar. Fá lýti munu þau á bók, er ekki finnast í þessu kveri. Það er fyrst, að það úir og grúir af prentvillum; jeg hef ekki lesið kverið vandlega, og hef þó fundið um 60 prentvillur, þar sem einn stafur er settur fyrir annan; og ríður þó einkum á í þesskonar bók að sýna ekki börnunum ranga mynd ordanna; og svo kveður rammt að prentvillunum, að sumstaðar standa þær tvær í sama orðinu, t. a. m. 47[17]; þar er nærfti fyrir nærsti (rjettara: næsti), nema ef það á að vera nýtt orð, er höfundurinn hefur sjálfur búið til, og er reyndar sízt fyrir að synja; því vitlausir nýgjörvingar finnast nógir í kverinu, og ekki að eins ný orð, heldur og einnig nýir stafir og ný stafaheiti. Til að venja börnin við að þekkja stafina, hvernig sem þeir snúa fyrir þeim, eru þeir látnir standa sumstaðar á höfði, t. a. m. ó á 44[17], r á 45[14]; (en t á 14. bls. er líklega ekki látið standa á höfði í þeim tilgangi; því það virðist vera heldur snemmt að sýna börnunum stafina á höfði, áður enn þau þekkja þá eins og þeir eiga að snúa). Fyrir tilbreytingar sakir eru stundum teknir stafir úr öðru letri, t. a. m. þ og ö á 30. bls., sem eru langtum minni, enn hinir stafirnir, en u í orðinu Púnktur á 47[12] er úr langtum stærra letri.

---

[1]) Skólakénnari er svona danska orðið *Skolelærer* snúið á íslenzku. Á Íslandi eru þess háttar menn kallaðir barnakennarar.

Á einum stað hefur verið farið að búa til nýjan staf; hann lítur svona út: ʝ (6[5]); en höfundinum hefur gleymzt að segja, hvað hann ætti að merkja, og væri óskandi, að hann vildi gjöra það, ef hann ætti hægt með.

Stafsetningin er öll bjöguð frá upphafi til enda, og þarf ekki lengra að fara, enn í sjálfa fyrirsögnina, því börnin og skólakennarinn eru þar látin vera með upphafsstaf, en hvorki „organistinn" nje kápan. Auk þess finnst t. a. m. egí (3[3] og víðar) f. eigi (þ. e. ekki), tekist (3[3]), leitast (3[15]) f. tekizt, leitazt, enn (næstum alstaðar) f. en *(sed)*, eyturfár (20 neðst) f. eitursár, skinsemina (24[17]) f. skynsemina, ímsar (31[2]) f. ýmsar, audsært (35[19]) f. auðsætt, fím (45[14] og víðar) f. fimm, mindir (46[9]) f. myndir, altaf (47[8]) f. allt af, og fram eptir því.

Þegar maður skoðar hvernig greinarmerkin eru sett, þá er auðsjeð, að höfundurinn hefur enga hugmynd um, hvað hvert merki táknar; því þau eru sett út í bláinn, og koma stundum mjög óheppilega við, og stundum er þeim sleppt með öllu. Það er ekki heldur til vonar, að honum farist það vel; því honum eru þau ekki tamari enn svo, að þegar hann fer að telja þau upp á 47. og 48. bls., þá gleymir hann tvístingnum (:), nema ef honum þykir það óþarfi að geta hans þar, eptir að hann er búinn að koma honum svo heppilega fyrir á 38[10] (nam hinn kjólklæddi madur stadar og sagdi: med dreissjugum svip, jeg o. s. frv.).

Þetta, sem þegar er talið, virðist vera nóg til að ónýta kverið með öllu; því jeg held, að börnin verði litlu betur læs fyrir það, þó þau sjái þessi skrímsli og ófreskjur, er höfundinum hefur þóknazt að búa til.

Þó batnar ekki, þegar litið er á orðfærið: hvad segir b a? (14[24]); hvad segir a b? (4[25]); æ eptir g og k heitir jæ sem í: gædi (7[6]); lesist (víða) f. á að lesa, brúka (alstaðar, þar sem því verður við komið); Gud blessi og

varðveiti gamla Ísland (27 neðst); anðaði honum stutt og gott (41[12]); plátsinu (45[15] og víðar); og margt annað þessu líkt.

Ekki bætir heldur skipulagið stórt um, þó hann sje æði drjúgur af því í formálanum. Hann segir raunar, að hann láti stafafjöldann fara vaxandi í atkvæðunum, og atkvæðafjöldann í orðunum; og það getur verið, að hann hafi ætlað sjer það í fyrstu; en hitt er víst, að eptir þessari reglu hefur hann ekki stöðugleik til að fara, nema hálfa aðra línu; því á 8. og 9. bls. lítur svo út, sem hann hafi ætlað að láta einungis vera tvo stafi í hverju atkvæði, en þegar í seinni hluta annarar línunnar verða þeir þrír, og úr því á báðum blaðsíðunum ýmist tveir eða þrír; og þetta skipuleysi er á öllum töflunum. Sama er að segja um þær töflurnar, er heil orð eiga að vera á, og fleiri enn eitt atkvæði í hverju orði, að þar er ekki farið eptir neinni reglu.

Stóru stafirnir á 14. og 15. bls. koma eins og fjandinn úr sauðarleggnum, þegar alla varir sem minnst, og standa þar einmana innan um atkvæðaflokkana, sem hvergi finnst stór stafur í.

Eitt er það, sem höfundurinn virðist hafa lagt mikla alúð við; það eru samstöfurnar á 2.-10. töflu, og er furða, að hann skuli hafa haft þolinmæði á að smíða allar þær samstöfur, hverja annari vitlausari og heimskulegri, því það mun vera óhætt að segja, að tíundi hlutinn af þeim á sjer engan stað í voru máli, t. a. m. ca, co, cu, ce, ci, cæ, cø (öll 8[4]), eyf og eyt (10[3]), njø (12[14]), eptr (13[4]), eiptr og eypts (13[9]), og þar fram eptir götunum; hefði honum verið nær að taka samstöfur, sem eru í máli voru, enn eyða tíma til að setja slíkt saman. Í töflunum 12.-17. eiga að vera heil orð, en honum hefur ekki tekizt betur á þeim, enn á samstöfunum; því mörg af þeim eru annaðhvort vitleysur eða dönskuslettur; má hjer skjóta inn í dálitlu sýn-

íshorni til skemmtunnar og fróðleiks: gíft (16[17]); plæg (16[18]); pødd (16[18]); vyrd (17[2]); drill (17[5]); þving (17[16]); innlegg (18[5]); øgnsmár (18 neðst); barnlegur (19[4]-[5]), líklega f. barnalegur (á dönsku *barnlig)*; fyllivømb (19[8]-[9]), á dönsku *Fyldevom*; hrosškambur (19[11]-[12]) f. hrossakambur; kálfnífur (19[17]; á það að vera sama og Íslendingar kalla káljárn?); kollheiðinn (19[18]), líklega fyrir kollheiður; ypparlegur (20[16]), á d. *ypperlig*; ærugirnd (20[17]); bótmælandi (21[3]-[4]); o. s. frv.

Nú er þá að líta á, hvernig honum hefur tekizt að velja eða búa til lestrar-kaflana. Þá kastar tólfunum. Jeg ætla einungis að biðja menn að líta í 20. töfluna (á 24. bls.). Getur nokkur ætlað það heilvita manni að hafa sett saman annað eins? eða getur sá maður haft nokkra fegurðartilfinning, er getur farið að snúa á íslenzku sögunum, sem hann kemur með á 31.—42. bls., og setja þær í stafrofskver handa börnum?

Jeg vonast til, að menn geti nú ráðið í, hvernig kverið er, og óþarfi sje að skýra nákvæmara frá því, til þess menn sannfærist um, að það getur ekkert gert nema illt eitt; það eru því tilmæli mín við alla landa mína, að þeir varist að láta þetta kver komast í hendur á börnum sínum; en þá, sem hafa glæpzt á að kaupa það, vildi jeg biðja að stinga því sem fljótast í eldinn.

H. F.

---

# SKÝRSLA

## um íslenzk bindindisfjelög frá vordögum 1844 til vordaga 1845.



Í fyrra vetur gengu að eins 2 skólapiltar í lög með oss (sjá 7. ár Fjölnis bls. 64). Vjer höfðum vænzt þar hinnar beztu liðveizlu, er skólapiltar voru, og vorum sannfærðir um, að þeir, fremur flestum öðrum, gætu styrkt fjelag vort. Það hefur og lýst sjer í ár, að þetta hefur ekki verið eintómur hugarburður; því í vetur hafa 28 þeirra bæzt við og stofnað bindindisfjelag í skólanum, og sendu þeir oss skýrslu um fyrirkomulag þess, og komast þeir þar svo að orði, að vegna þess, að þeir sjeu að mestu afskekktir frá öðrum, hafi þeim þótt bezt fara að stofna fjelag sjer í lagi. Nú sem stendur eru þessir skólapiltar í fjelaginu:

*Oddur Hallgrímsson* á Bessastöðum á Álptanesi,
*Þórður Þorgrímsson* frá Þæfusteini í Snæfellsnesssýslu,
*Benidikt Gröndal* frá Eyvindarstöðum á Álptanesi,
*Benidikt Kristjánsson* frá Þóroddsstöðum í syðri Þingeyjarsýslu,
*Jón Auðunn Blondahl* frá Hvammi í Húnavatnssýslu,
*Jóhann Knútur Benidiktsson* frá Mógilsá í Kjósarsýslu,
*Jónas J. Thorstensen* úr Reykjavík,
*Stefán Guðnason* frá Ljósavatni í syðri Þingeyjarsýslu,
*Páll Jónsson* frá Hvammi í Undirfellssókn í Húnavatnssýslu,
*Þórður Jónassen* úr Reykjavík,
*Jakob Guðmundsson* frá Steinnesi í Húnavatnssýslu,

*Sveinn Skúlason* frá Eyólfsstöðum í syðri Múlasýslu,
*Magnús Grímsson* frá Grímsstöðum í Borgarfjarðarsýslu,
*Guðbrandur Vigfússon* frá Frakkanesi í Dalasýslu,
*Halldór Guðmundsson* frá Ferjukoti í Mýrasýslu,
*Jón Finsen* úr Reykjavík,
*Brynjólfur Jónsson* frá Þvottá í syðri Múlasýslu,
*Bjarni Thorlacíus* frá Saurbæ í Eyjafjarðarsýslu,
*Jón Þórðarson* frá Klausturhólum í Árness-sýslu,
*Þorfinnur Jónatansson* frá Uppsölum í Skagafjarðarsýslu,
*Jóhannes Halldórsson* frá Múla í Húnavatnssýslu,
*Bergur Jónsson* frá Þvottá í Hofssókn í syðri Múlasýslu,
*Jónas Jónsson* frá Miklabæ í Skagafjarðarsýslu,
*Stefán Bjarnarson* frá Ketilsstöðum í nyrðri Múlasýslu,
*Lárus H. Scheving* á Bessastöðum,
*Þórarinn Böðvarsson* frá Melstað í Húnavatnssýslu,
*Daniel Thorlacíus* frá Stykkishólmi,
*Skúli Gíslason*, lærisveinn í Sviðholti, frá Mælifelli í Skagafjarðarsýslu,

Auk skólapilta hafa nokkrir gengið í fjelag þeirra; teljum vjer þar fyrst til kennarana *Dr.* Hallgrím Scheving á Bessatöðum og *Dr.* Sveinbjörn Egilsson á Eyvindarstöðum, og kunnum vjer þeim fyrir það miklar þakkir, og vonumst til, að þeir af skólapiltum, er ekki hafa gengið í fjelagið enn þá sem komið er, muni gjöra að dæmi þeirra. Þar að auki hafa þessir gengið í fjelagið:

*Jón Árnason*, stúdent á Eyvindarstöðum,
*Sigurgeir Jakobsson*, lærisveinn á sama bæ frá Breiðumýri í syðri Þingeyjarsýslu,
*Jón Þorkelsson*, lærisveinn á s. b. frá Fjalli í Skagafjarðarsýslu,

*Jón Jónsson*, lærisveinn á. s. b. frá Barði i Skagafjarðarsýslu,

*Egill Sveinbjarnarson*, lærisveinn á. s. b.,

*Eggert Magnússon*, lærisveinn á. s. b. frá Stóruvogum í Gullbringusýslu,

svo nú eru alls í því 38.

Eiríkur Jónsson, skólapiltur frá Borg i Hornafirði, er gengið hafði í lög með oss i fyrra vetur, stofnaði í sumar, meðan hann dvaldist heima, bindindisfjelag, og sendi hann oss greinilega skýrslu um það. Þar segir svo: „þegar jeg kom úr skólanum austur i átthaga mína i sumar, hafði enginn tekizt þar á hendur að tala máli bindindisfjelaganna; byskup hafði að vísu sent prestum boðsbrjef bindindisfjelagsins í Kaupmannahöfn, og þeir getið um þau við sóknarbörn sín, en lengra var ekki komið. Það fór því að líkindum, þó mjer gengi ervitt í fyrstu að fá menn í fjelag við mig. Hinir fyrstu, sem fjellust á mál mitt, voru þeir sjera Björn Þorvaldsson á Stafafelli í Lóni, sjera Jón á Borg, prestur í Einholtssókn, og Stefán Eiríksson hreppstjóri í Akranesi í Bjarnaness-sókn, og hafa þeir allir síðan rekið erindi bindindisfjelagsins með mestu alúð og kappi, einkum sjera Björn Þorvaldsson, er nú hefir fengið meiri hluta bænda og yngismanna í sókn sinni í bindindisfjelagið. Áður enn jeg fór að heiman í skólann voru fimmtán gengnir í fjelagið; voru 10 þeirra í Lónssveit, 1 í Bjarnaness sókn og 4 í Einholtssókn; kaus fjelagið sjer þá forstjóra og varð jeg fyrir hlutfallinu, en af því jeg varð að fara í skóla, var sjera Björn Þorvaldsson kosinn til aukaforstjóra og hefur hann þegar sýnt, að fáir mundu hafa verið betur til þess fallnir, enn hann. Oss kom saman um, að eitt skyldi fjelag vera í þeim þremur sveitum, er áður eru greindar; því þeim er svo háttað, að þær liggja hver við aðra, og stöðugar samgöngur

á milli. Síðan jeg fór að heiman hefur tala bindindismanna í því fjelagi aukizt meir enn um helming, svo þeir eru nú 42 að tölu. Þeir eru þessir:

### Í Lónssveit:

*Björn Þorvaldsson*, prestur á Stafafelli,
*Bergur Jónsson*, yngispiltur á sama bæ,
*Jón Jónsson*, vinnumadur á. s. b.,
*Guðmundur Guðmundsson*, a. s. b.,
*Jón Eiríksson*, bóndi á Hlíð,
*Jón Andrjesson*, yngispiltur á. s. b.,
*Þorsteinn Jónsson*, fyrirvinna á Reiðará,
*Sigurður Sveinsson*, hreppstjóri á Vík,
*Árni Þorkelsson*, yngispiltur á. s. b.,
*Stefán Árnason*, bóndi á Hvalsnesi,
*Sveinn Stefánsson*, yngispiltur á. s. b.,
*Jón Stefánsson* eldri, yngispiltur á. s. b.,
*Jón Stefánsson* yngri, yngispiltur á. s. b.,
*Þorsteinn Brynjólfsson*, bóndi á Bæ,
*Jón Þorsteinsson*, bóndi á. s. b.,
*Eyólfur Jónsson*, bóndi á Hraunkoti,
*Árni Gíslason*, yngispiltur á Bigðarholti,
*Rafnkell Gíslason*, yngisp. á. s. b.,
*Ólafur Gíslason*, yngisp. á s. b.,
*Jón Grímsson*, bóndi á Krossalandi,
*Kjartan Jónsson*, yngispiltur á. s. b.,
*Jón Brynjólfsson*, bóndi á Dal,
*Jón Bjarnason*, bóndi á Vík,
*Stefán Jónsson*, bóndi á Hvammi,
*Sigurður Gíslason*, yngisp. á. s. b.,
*Halldór Ketilsson*, bóndi á Volaseli,
*Sigurður Jónsson*, bóndi á Þorgeirsstöðum,
*Þorleifur Vigfússson*, vinnumaður á. s. b.,
*Halldór Snjólfsson*, vinnumaður á Firði,
*Eiríkur Símonarson*, vinnum. á Firði,

I Bjarnaness-sókn:

*Stefán Eiríksson*, hreppstjóri á Árnanesi,
*Eiríkur Eiríksson*, yngism. á. s. b.,
*Ásgrímur Runólfsson*, vinnum. á. s. b.,
*Sigurður Sigurðsson*, yngisp. á. s. b.,
*Eiríkur Einarsson*, vinnupiltur á. s. b.

Í Einholtssókn:

*Jón Bergsson*, prestur á Borg,
*Magnús Guðmundsson*, bóndi á Geirsstöðum,
*Þorlákur Sigurðsson*, bóndi á Haukafelli,
*Eiríkur Eiríksson*, bóndi á Hömrum,
*Halldór Sigurðsson*, bóndi á Einholti,
*Eiríkur Jónsson*, yngisp. á Hólmi,
*Steinn Bjarnason*, bóndi á Flögu.

Vjer getum ekki skilizt svo við þetta mál, að vjer þökkum eigi forstjórum þessa fjelags, hve skörnglega þeir hafa rekið bindindismálið, og ætti það marga slíka erindreka, mundi þess ekki langt að bíða, að bindindi yrði almenn á Íslandi.

Af Austfjörðum höfum vjer ekkert frjett um bindindi.

Í Húnavatnssýslu hafa 5 menn gengið í bindindisfjelag: Guðmundur Einarsson, skrifari, Björn Jónsson og Baldvín Þorsteinsson, vinnupiltar, Stefán Blondahl og Þorlákur Blondahl, allir í Hvammi í Vatnsdal. Líka hefur Jón sýslumaður Pjetursson á Melum í Strandasýslu gengið í lög með oss.

Í Fjölni í fyrra (bls. 64) er þess getið, að sjera Eyólfur Kolbeinsson á Eyri í Skutulsfirði hefði stofnað bindindisfjelag í sóknum sínum, og hefði þá þegar verið búinn að fá 21 í fjelagið; síðan hafa 9 bæzt við; en því er miður, að oss hafa ekki verið send nöfn þeirra.

*Dr*. Pjetur Pjetursson, prófastur á Staðastað í Snæfellsness-sýslu, hefur stofnað bindindisfjelag í prófastu-

dæmi sínu; og hafa þessir menn gengið í það: sjera Einar Vernharðsson, aðstoðarprestur í Hítarnesi, forseti fjelagsmanna í Kolbeinsstaða-hrepp, Vernharður Þorkelsson prestur á sama bæ, Jón Vilhjálmsson sættanefndarmaður, Ólafur Bjarnason bóndi á Brúarhrauni, Jóhannes Hannessson bóndi á Stóra-Hrauni, Bjarni Bjarnason bóndi á Kolbeinsstöðum, Þórður Þórðarson bónda á Rauðkollsstöðum, Stefán Guðmundsson hreppstjóri í Syðri-Tungu, Jónas Samsonsson hreppstjóri á Álptavatni.

Af þessu má sjá, að árið, sem leið, hafa 102 menn gengið í lög með oss á Íslandi, og er þó ekki ólíklegt, að þeir kunni að vera fleiri, þó vjer höfum ekki frjett það.

Oss hefur borizt sú fregn, að 4 menn hafi stofnað hófsemdarfjelag í Þingeyjarsýslu: Björn Halldórsson, stúdent á Eyjadalsá, Gottskálk Jónsson unglingspiltur á sama bæ, Sigurður Guðnason hreppstjóri á Ljósavatni, og Sigurður Eiríksson vinnumaður á sama bæ, og getum vjer þess fyrir þá sök, að vjer höldum, að þetta hófsemdarfjelag kunni reyndar að vera bindindisfjelag.

Um fjelag vort hjer í Kaupmannahöfn er það að segja, að síðan í fyrra hafa 4 bæzt við í fjelagsskapinn: Gísli Jóhannesson, Vilhjálmur Finsen, Jón Sigurðsson yngri, bókmenntamenn, og Jakob Thórarensen iðnaðarmaður. Aptur hafa 4 úr fjelagi voru farið heim til Íslands árið, sem leið: *Dr.* Pjetur Pjetursson, Stefán Gunlögsen, landfógeti, Jónas Gottskálksson og Geir Jónsson.

Á fjelagsfundi, 16. dag febrúar-m. í vetur var þessari grein bætt við lögin með samþykki allra þeirra, er á fundi voru:

6. grein.

Ef sá, sem brotið hefur í annað sinn, og sæta á viðvörun á fundi, kemur ekki, þó hann hafi verið kvaddur til fundar, er þó sem hann hafi á fundi verið.

Það var og lögtekið með 10 atkvæðum, að í 5. grein skyldi orðið „viðvörun" koma í stað orðsins „áminning".

Eptir það póstskip var komið, höfðum vjer fund með oss 13. dag apríl-mánaðar, og skýrði þá hver fjelagsmanna frá því, er hann hafði frjett um bindindisfjelög á Íslandi og annað, sem þar að lýtur.

---

## UM MINNISVARÐANN

### eptir sjera Tómas Sæmundsson.

Í fyrra vor (1844) sendum vjer til Íslands „boðsbrjef um minnisvarða eptir sjera Tómas Sæmundsson", meir enn 200 að tölu, en höfum ekki fengið aptur nein skeyti, nema frá liðugum 20 mönnum. 229 dölum hefur verið safnað, og þar af í Kaupmannahöfn 141 dal. Nú er ekki að hugsa til að fá sæmilegan minnisvarða fyrir minna, enn 300 dala í minnsta lagi, og þessvegna biðjum vjer mikillega alla þá, sem hafa þar að lútandi boðsbrjef undir höndum, að senda þau í sumar einhverjum af oss, er ritað höfum nöfn vor undir þau. Getum vjer þess, að við heimför hra. Gísla Magnússsonar til Íslands var kosinn í hans stað Jónas Hallgrímsson.

Kaupmannahöfn, laugardaginn fyrstan í sumri 1845.

---

## AUGLÝSING.

Alla þá, sem fengið hafa frá okkur til sölu sögu af Hrafnkeli freysgoða, prentaða í Kaupmannahöfn 1839, biðjum við gjöra svo vel að senda nú í sumar öðrum okkar, Konráði Gíslasyni, það, sem enn er óselt af henni, ásamt andvirði hins, að því leyti sem ekki hafa verið gjörð skil fyrir því og að frádregnu sölukaupi.

Kaupmannahöfn, um sumarmál 1845.

Útgefendur Hrafnkelssögu.

---

## ILLUR LÆKUR.

Þess ber að geta, að smá-kvæðið „illur lækur" (sjá 7. ár Fjölnis á 29. bls.) er kveðið eptir þjóðkunnu spánsku kvæði.

J. H.

# FJÖLNIR.

NÍUNDA ÁR.

**1846.**

Kostar 48 skk.

**Kaupmannahöfn.**

# FJÖLNIR.

## ÁRRIT HANDA ÍSLENDINGUM.

"Gefið út"

af

NOKKRUM ÍSLENDINGUM.

---

Níunda ár.

---

ÁBYRGÐARMAÐUR:

*HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.*

---

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1847.

## YFIRLIT EFNISINS.


Bls.

† Jónas Hallgrímsson . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 1.
† Jónas Hallgrímsson (kvæði) . . . . . . . . . . . . . . . . 7.
Grasaferð . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 9.
Fífill og hunangsfluga . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 25.
Hreiðarshóll . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 28.
Klaufllaxinn . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 35.
Að tyggja upp á dönsku . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 36.
Úr gamanbrjefi frá Jónasi til kunningja sinna í Kaupmannahöfn 38.
Fundurinn . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 42.
Maríubarnið . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 45.
Stúlkan í turninum . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 48.
Brot úr brjefi, skrifuðu 13. júlí 1841 . . . . . . . . . . . . 52.
Leggur og skel . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 54.
Yfirlit yfir fuglana á Íslandi . . . . . . . . . . . . . . . . 58.
† Jónas Hallgrímsson (kvæði) . . . . . . . . . . . . . . . . 73.
Nótt . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 75.
Óveður . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 76.
Hafmey . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 77.
Kveðja . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 79.
Landa-vísor . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 81.
Skýrsla um íslenzk bindindisfjelög frá vordögum 1846 til vordaga 1847 . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 87.

## PRENTVILLUR.

---

Á bls. $31^{5}$ svona f. sona.

– – $31^{24}$ haughúi f. haugbúi.

– – $31^{4}$ moti f. móti.

– – $46^{29}$ hefurðu f. Hefurðu.

– – $55^{21}$ svona f. sona.

– – $67^{24}$ I f. 1.

– – $69^{19}$ náðzt f. náðst.

– – $69^{20}$ haustíma f. hausttíma.

---



# JÓNAS HALLGRÍMSSON.

Þó oss komi ekki til hugar, að bjóða mönnum hjer neitt, sem kalla megi æfisögu Jónasar heitins, getum vjer þó ekki leitt fram hjá oss, að minnast í fám orðum á þau atriði æfi hans, sem vant er að tilgreina í sjerhverri æfiminningu. Líka ætti vel við að sýna, hvaða hlut hann hefur átt í riti þessu, allt í frá upphafi, en þá yrði jafnframt að segja alla æfisögu Fjölnis, og látum vjer það hjá líða að sinni.

Eptir skólavitnisburði (*testimonio*) Jónasar, er hann borinn og barnfæddur á Hrauni í Öxnadal í Vaðlaþingi, 16. dag nóvember-mánaðar 1807. Faðir hans var Hallgrímur Þorsteinsson, kapilán sjera Jóns Þorlákssonar. Sjera Hallgrímur drukknaði, meðan Jónas var í bernsku, og getur Jónas þess, þar sem hann segir:

Þá var eg ungur,
er unnir luku
föður augum
fyrir mjer saman.

Móðir Jónasar var Rannveig, sem enn er á lífi, dóttir Jónasar bónda á Hvassa-felli, skálds, þess er Jónas var heitinn eptir. Hún kom syni sínum í heimaskóla hjá sjera Einari Thorlacius, sem þá var í Goðdölum og nú er í Saurbæ, og þar var Jónas tvo vetur, þangað til hann fjekk hálfa ölmusu og komst í Bessastaða-skóla 1823.

Árið eptir var honum veitt öll ölmusa, og má fullyrða, að fáir hafi verið þess verðari, bæði fyrir siðprýðis sakir og náms. Að sönnu er þess við getið í skólavitnisburðinum, að hann hafi heldur verið hyskinn, fyrstu árin sín í skóla; en þeir, sem þá voru honum samtíða, munu flestir verða við að kannast, að hyskni hans hafi verið eins affaragóð, og ástundun þeirra, bæði að því leyti, sem honum veitti ljettara námið, og líka hins vegna, að hann hafði alla jafna eitthvað fallegt fyrir stafni, sem átti við eðli hans, og að minnsta kosti seinni árin sín í skóla kynnti hann sjer margt annað, enn skólalærdóm. Það má t. a. m. fullyrða, að hann hafi nærri því kunnað utanbókar kvæði hins forna skálds Ossíans, snúin á dönsku af sjera Steini *Blicher*. Um þetta leyti samdi hann líka smá-ritgjörðir og orti smá-kvæði, og er sumt af því enn þá óglatað. 1829 var hann útskrifaður úr skóla, og var skrifari hjá *Ulstrup*, fóeta í Reykjavík, þangað til 1832. Nú þó líkur væru til, að Jónas hefði heldur ryðgað í skólalærdómi þessi árin, og hann væri hins vegar ekki mjög byrgur af peningum, rjeðst hann í að sigla sumarið 1832, leysti af hendi *examen artium* sama haust með góðum vitnisburði (*laudabilis*), og sömuleiðis *examen philologicum et philosophicum* árið èptir. Þá byrjaði hann að stunda lögvísi, og er óhætt að segja, að hvorki sú vísindagrein, eða nokkur önnur, var honum ógeðfelld; en þó var hann hneigðari fyrir annað, og var það ríkara, svo hann dróst algjörlega frá lögvísinni; las hann þá einkanlega skáldskaparrit, og stundaði meðfram náttúrufræði, sjer í lagi náttúrusögu; ljek honum mest hugur á, að kynna sjer eðli og ásigkomulag ættjarðar sinnar, og gat hann fengið af rentukammerinu nokkurn styrk til að ferðast um Ísland 1837, fór um vorið heim til Vestmannaeyja með Gísla kaupmanni Símonarsyni, og kom aptur um haustið. Aðra ferð fór hann heim 1839 og var heima þangað til 1842, var í Reykjavík á veturna, en ferðaðist á sumrin, og komst

nærri því yfir allt landið; hafði honum nú farið svo fram í kunnugleika til landsins, að varla mun neinn maður, síðan Eggert Ólafsson var á dögum, hafa haft eins jafna og margháttaða þekkingu á Íslandi. En á þessum árum breyttist heilsufar hans svo til hins lakara, að hann beið þess aldrei bætur, og hefur það sjálfsagt, að miklu leyti, dregið hann til dauða. Hann kom aptur til Kaupmannahafnar 1842, eptir undirlagi hins íslenzka bókmenntafjelags, til að semja einn part af Íslands lýsingu, sem hann hafði fyr meir, áður enn hann fór heim í seinna skiptið, stungið upp á, að fjelagið reyndi til að koma á stofn. Úr þessari ferð hafði hann með sjer marga náttúrugripi, sjer í lagi steina og jarðtegundir, í náttúrugripasöfn konungs og háskólans. Sumt af því mun að vísu hafa verið ókunnugt áður; að minnsta kosti höfum vjer heyrt getið um nýja kristallstegund, sem Jónas hafði fyrstur fundið, og kom með frá Íslandi, og skírður hefur verið *Christianit* af nafni konungs vors. Þenna vetur var Jónas í Kaupmannahöfn, og varði miklu af þeim tíma til að kynna sjer betur það sem hann hafði með sjer að heiman, og svo til að koma því fyrir. Um vorið fór hann til *Sorø* (sem hann hjelt, að hefði heitið Saurar í fornöld), og var þar hjer um bil ár, hjá *Steenstrup*, sem þá var þar *Lector*, en nú er *Professor* við háskólann í Kaupmannahöfn. Vorið 1844 kom Jónas aptur til Kaupmannahafnar, og var hjer upp frá því að fást við Íslands lýsingu, þá sem fyr var um getið, en orti jafnframt meira að tiltölu, enn nokkurn tíma áður; en það átti ekki að haldast lengi; 15. maí seint um kveldið, þegar hann gekk upp stigann hjá sjer*), skruppu honum fætur, og gekk sá hinn hægri í sundur fyrir ofan ökla; komst hann þó á fætur og inn til sín, lagðist niður í fötunum og beið svo morguns. Þegar inn var komið til hans um morguninn, og hann var spurður,

---

*) *St. Pederstræde 140, 3. Sal.*

á meðal hinna áðurtöldu, svo að rjettu lagi get jeg ekki talið meir enn 80 íslenzkar fuglategundir, sem verpa í landinu og eru þar að staðaldri. Samt má ekki sleppa hinum og skal jeg því nefna þá alla samt, eptir þeirri röð, sem mjer þykir fara bezt; og getur hún samt ekki orðið svo, að alstaðar sjáist skyldugleikinn, því víða verða í henni eyður, sem ekki verða fylltar upp — liðirnir, sem eiga í þær, búa hingað og þangað út um heiminn — og verða menn svo að draga hitt saman, og getur þá ekki hjá því farið, að myndin líti stundum út, viðlíkt og ef á einhverju blómi blaðaleggina vantaði eða hálf blöðin, og sætu þau svo föst á stönglinum — mjer þykir gott, ef mjer ekki tekst svo, að blöðin snúi niður á við eða stöngullin komi á undan rótinni.

## Fyrsti hópur.

## Gripfuglar (*raptores*).

### 1. deild: Dagfuglar (*aves rapaces diurnae*).

#### 1. Arnakyn (*aquila*).

1 tegund. **Örn, assa; sjó-örn** (*aquila albicilla*) á heima á Íslandi og byggir sjer hreiður í klettum; ung er hún dökkgrá með svart nef, en fær með aldrinum gult nef og hvítt stjel og gránar þá um höfuðið. Þessi litaskipti hafa valdið því, að sumir hafa gjört 3 tegundir úr einni, og sumir standa fast á því enn. Þá kalla þeir gömlu örnina **hvíthöfðu** (*a. leucocephala*); en allt er þó reyndar sami fuglinn. Örnin verður 100 ára eða meira og getur flogið þrjár þingmannaleiðir á klukkustundinni.

#### 2. Fálkakyn (*falco*).

1. tegund. **Fálki, valur; veiðifálki** (*falco islandicus*); þenna mikla veiði garp þekki þið allir. Hann fer varla úr landi, nema ársgömlu fuglarnir, sem fljúga

stundum til Þjóðverjalands. Það er enn óvíst, hvort hvíti fálkinn er gamall fugl, eða það er kynbreyting; jeg er á fyrri meiningunni.

2. tegund. Smirill, dvergfálki *(falco aesalon)*; hann fer til Þjóðverjalands á veturna, en kemur heim með titlingunum á vorin — því hann lifir ekki á öðru, það jeg veit; svo verpir hann um leið og á 3 eða 5 gulmórauð egg.

3. tegund. Stjörnufálki *(falco lanarius)*, nokkuð minni enn valurinn, og dekkri á lit, með bláleitu nefi og klóm. Það er ekki íslenzkur fugl, en á heima í Norðurálfunni austanverðri, svo sem á Rússlandi, Pólínalandi og Ungverjalandi; þó villist hann stundum til Íslands, og Fugla-Faber sálugi skaut einn á Akureyri um haustið 1819.

2. deild: Náttfuglar *(aves rapaces nocturnae)*.

1. Uglukyn *(strix)*.

1. tegund. Náttugla, snjó-ugla *(strix nyctea)* kemur stundum til Íslands, líklega frá Grænlandi, en verpir þó hvergi í landinu, svo jeg viti. Þessi ugla er stór, meir enn alin á lengd og framt að 3 álnir á vængina.

2. tegund. Trjáugla, brandugla *(strix aluco)*; hún er miklu minni enn hin, móbrún á lit og hvít undir búknum; jeg hef ekki sjeð hana á Íslandi; en það er samt líklega þessi ugla, sem þeir Eggert og Bjarni hafa lýst í ferðabók sinni; myndin hjá þeim er svo illa gerð, að enginn maður getur sjeð, hvaða skepna það á að vera.

---

## Annar hópur.

## Klifrarar *(scansores)*.

Jeg verð að nefna hann; en enginn fugl úr honum finnst á Íslandi. Það er ekki heldur von í skóglausu

landi; því þeir lifa allir á trjám og múrum og tína þar pöddur úr holum og sprungum; sumir lifa þeir samt á fræi, svo sem til dæmis páfagaukar *(Papegöier)* og piparfuglar.

---

## Þriðji hópur.

### Göngufuglar *(ambulatores)*.

#### 1. deild: Hrafnakyn *(corvus)*.

1. tegund. Hrafn, krummi *(corvus corax)*. Hann þekkið þið allir; en gott þætti mjer, að þið vilduð segja mjer nokkuð um hann, allir sem getið, einkum um hrafnaþingin og annað, sem kátlegast er í fari hans.

2. tegund. Kráka *(corvus cornix)* á ekki heima á Íslandi, en kemur þar sona af og til. Þið þekkið hana állir hjeðan.

3. tegund. Færeyja-hrafn *(corvus corone)* er svartur á lit og miklu minni, enn krummi, skáldaður fyrir ofan nefið; það er sami fuglinn og náðist í Viðey og Eggert Ólafsson hefur gert kvæðið um.

#### 2. deild: Söngfuglar *(oscines)*.

##### 1. Kjarnbrjótakyn *(loxia)*.

1 tegund. *Loxia serinus*, lítill fugl gráleitur, með gular randir yfir um vænginn. Hann á reyndar heima sunnarlega í Norðurálfunni, en kemur þó stundum til Íslands og verpir þar líklega; því ungir fuglar af þessari tegund hafa sjezt þar að áliðnu sumri fyrir norðan.

##### 2. Spörfuglakyn *(fringilla)*.

1 tegund. Auðnutitlingur *(fringilla linaria)*, lítill fugl mógrár og rauðleitur á bringunni, býsna sjaldgæfur; þeir fljúga burt á haustin og þó ekki allir, því sumir eru kyrrir í góðum vetrum.

### 3. Titlingakyn *(emberiza)*.

1. tegund. Snjótitlingur, sólskríkja (á sumrin) *(emberiza nivalis)*.

2. tegund. Sportitlingur *(emberiza calcarata)*, miklu sjaldgæfari, sjest stundum innan um hina og er þá kyr á veturna.

### 4. *Anthus**).

1 tegund. Þúfutitlingur *(anthus pratensis)*. Þið hafið opt heyrt til hans á vorin; hann singur bezt af öllum söngfuglum á Íslandi. Hann byggir í þúfum úti um haga, og bregður sjer hrossbársbreiður, en kemur heim á bæi á haustin, áður enn hann fer á stað.

### 5. Erlukyn *(motacilla)*.

1 tegund. María-erla eða máriatla *(motacilla alba)*. Hún mun optast koma til landsins nálægt sumardeginum fyrsta — 2. eða 5. a.

### 6. Þrastakyn *(turdus)*.

1 tegund. Skógar-þröstur *(turdus iliacus)*. Hann kemur snemma á vorin og ætlar þá að deyja úr kulda; þá er hann heima við hús og bæi, og þið munið víst eptir hópunum, sem stundum sátu á Bessastaðatúni. Engan okkar grunaði þá, að þeir væru nýkomnir úr langferð, lengst sunnan úr löndum.

---

*) Það er ekki víst, hvar þessi fugl á sjer stað í skiptingunni. Mohr, sem ferðaðist um Ísland seinast á síðustu öld, kallar hann *fringilla lapponica* og lætur hann heyra til spörfuglakyns; en Fugla-Faber kallar kynið *anthus*, og tegundina *a. pratensis*, og kallar hann grátitling, sem líklega er sama og þúfutitlingur.

### 7. Steindeplakyn (*saxicola*).

1 tegund. Grádílóttur steindepill, steinklappa (*saxicola oenanthe*); kemur ekki fyr enn viku af sumri eða meira, og fer aptur í miðjum september. Þessi meinleysingur halda sumir fljúgi undir ærnar.

### 8. Rindill (*troglodytes*).

1 tegund. Músarbróðir, músarrindill (*troglodytes punctatus*). Minnstur af fuglunum á Íslandi, og líklega sá eini, sem ungar út tvisvar á sumri. Hann er kyr á veturna og stelst þá inn um eldhúsglugga í kjöt og magála, en jetur flugur á sumrin; þegar hann er að skjótast þetta, grár og lítill, með stjelið eins og það er, hefur mönnum þótt hann svipaður mús og gefið honum svo þetta nafn.

### 3. deild: Svölukyn (*hirundo*).

1. tegund. Bæjarsvala (*hirundo urbica*).
2. tegund. Landsvala (*hirundo rustica*).

Báðar þessar tegundir koma einstaka sinnum til Íslands og hafa náðst þar, svo jeg veit; en ekki hefur orðið úr að þær byggðu sjer þar hreiður.

---

## Fjórði hópur.

## Hænsnafuglar (*gallinæ*).

Þar af finnst varla á Íslandi nema

1 tegund. Rjúpa, keri, rjúpkarri (*tetrao lagopus*). Það hefur verið rifizt um, hvort það sje sama tegundin og Norðurálfu-rjúpan (*tetrao lagopus auctorum*); Fugla-Faber segir það sje ekki; og satt er, að nokkur mismunur er á báðum, en samt er hann ekki meiri enn svo, að hann getur vel komið af mismuninum á

veðráttufari og landslagi, og reyndar mun það allt vera sama tegundin.

---

## Fimmti hópur.

## Mýrfuglar (*grallatores*).

### 1. deild: Hlaupafuglar (*cursores*).

### Lóukyn (*charadrius*).

**1. tegund. Lóa, heylóa** (*charadrius pluvialis*). Þegar jeg var lítill, heyrði jeg lóurnar svæfu í hellum á veturna og hefðu fundizt þar með laufblað í munninum; en sje þessi bábilja byggð á nokkru, hafa þær, sem fundizt, vissulega verið dauðar; því enginn fugl liggur í dvala, og það gerir ekkert dýr, sem hefur eins heitt blóð og þeir. Þið munið, hvernig lóurnar eru litar á sumrin; á veturna eru þær allar ljósgráar, og eru þá að flakka suður um miðja Norðurálfu og enda fyrir sunnan Mundíufjöll, en koma heim á vorin að syngja. Á engum fugli ber heldur eins mikið og þeim, þegar þær eru að flytja sig á haustin; þær safnast þá í hópa, þúsundum saman, og eru að æfa sig á að fljúga fram og aptur nokkra daga, þangað til þær leggja á stað einhvern morguninn, og geta þá vel verið komnar til Írlands seint um kvöldið.

**2. tegund. Sandlóa** (*charadrius hiaticula*), kemur með lóuþrælunum á vorin, hjer um bil viku af sumri. Hún getur fleytt sjer í vatni, þó hún sje fitjarlaus, en hættir sjer þó sjaldan langt undan landi.

### 2. deild: Vöðufuglar (*grallæ*).

### A. Þríklóa.

### 1. Tjaldakyn (*hæmatopus*).

**1 tegund. Tjaldur** (*hæmatopus ostralegus*), auðþekktur. Þeir eru sumir kyrrir á veturna og verða þá

flekkóttir, og fæturnir grána upp — því annars eru þeir blóðrauðir.

2. Sanderlukyn *(calidris)*.

1 tegund. Sanderla *(calidris arenaria)*, lítill fugl áþekkur sandlóu og hefur fundizt í Grímsey; annars á sanderlan heima norðast í Noregi og Vesturálfunni.

B. Fjórklóa.

3. Vepjukyn *(vanellus)*.

1 tegund. Vepja *(vanellus cristatus)*, strandfugl, nokkuð stærri enn lóa, með toppi og dökkri kápu og slær grænni slikju á vænginn. Hann er útlendur, en kemur þó stundum til Vestmanneyja, og hefur, að jeg held, verið skotinn á Innnesjum fyrir sunnan.

4. Spóakyn *(numenius)*.

1. tegund. Spói *(numenius phaeopus)*, er alþekktur, kemur í apríl-mánaðar lok og fer aptur í miðjum september.

2. tegund. Nefboginn spói *(numenius arquata)*, stærri enn hinn, kemur sjaldan til Íslands hefur náðzt um haustíma við Reykjavík.

5. Hegrakyn *(ardea)*.

1 tegund. Gráhegri *(ardea cinerea)*, kemur hingað og þangað á landið haust og vor, enda í Grímsey — en verpir hvergi, það jeg veit.

6. Selningakyn *(tringa)*.

1. tegund. Lóuþræll *(tringa alpina)*. Nafnið á þessum fugli sýnir, að Íslendingar eru ekki svo eptirtektalausir á náttúrunni. Því að vísu sjer maður opt á vorin lóu og lóuþræl saman, og heldur þá þrællinn vörð og ræður flugi og hvílu og er að öllu leyti vegsögumaður heylóunnar, þangað til þau hafa fundið lóu, sem vill eiga

hana — þá halda hjónin saman úr því, og þrællinn fer niður til strandar, þangað sem honum þykir bezt að vera.

2. tegund. Selningur, fjallafæla (á sumrin) *(tringa maritima)*. Hann er kyr á Íslandi árið um kring og furðulega gæfur á vetrum; halda þeir hóp, og sitja þá þúsundum saman alstaðar með ströndinni, þar sem nokkur er skelja-von, og verða þá að sæta útfallinu til að leita sjer matar; það er því ekki sjaldgæft að sjá þá úti á skerjum í túnglsljósinu að tína sjer krækling, meðan aðrir fuglar sofa, og er það lífshætta í brimi; því þó selningurinn sje fimur, rota þær hann stundum, bárurnar, og gráir búkar liggja í hrönninni; jeg hef opt kennt í brjóst um þann fugl; á sumrum fara þeir á fjöll upp og heiðar einir saman að verpa og bera sig þá hörmulega, ef komið er nærri hreiðrunum; þá kalla menn þá fjallafælur.

3. tegund. Rauðbrystingur *(tringa cinerea s. islandica)*, kemur á vorin um maí-mánaðarlok og er þá í sumarbúningi blóðrauður á öllu brjóstinu — þá fer hann burt að verpa, líklega upp á fjöll og sjest ekki aptur fyr enn seinast í ágúst, og er hann þá aptur orðinn grár á brjóstinu; hann er þá um ströndina hingað og þangað, þar til hann flýgur burt í miðjum september.

4. tegund. Kragi, áflogakragi *(tringa pugnax)*, illur fugl og harðfengur; hann er ekki íslenzkur. Faber segir kvennfugl af þeirri tegund hafi verið skotinn í Reykjavík um haustið 1820. Steggirnir hafa fjaðrakraga um hálsinn, mislitan, og sinn litur á hverjum. Um brundtímann eru þeir óðir, og dettur þá fiðrið af þeim upp fyrir augu og koma gular vörtur í staðinn; svona ganga þeir með úfinn kragann og liggja í sífeldum áflogum.

## 7. Stelkakyn *(totanus)*.

1 tegund. Stelkur *(totanus calidris)* kemur í miðjum apríl og fer á stað fyrst í október; þó eru sumir eptir á veturna.

### 8. Jaðrekukyn *(limosa)*.

1 tegund. Jaðreka (með svörtu stjeli) *(limosa melanura)*, fyrir austan fjallið í Árness- og Rangárvalla-sýslum, fer burt á veturna. Þetta fuglakyn er ólíkt öðrum í því, að kvennfuglinn er bæði stærri og litfegri, enn karlfuglinn. Það eru fáir fuglar aðrir að fráteknum óðinshananum.

### 9. Snípukyn *(scolopax)*.

1 tegund. Hrossagaukur, mýrisnípa *(scolopax gallinago)*, skemmtilegur fugl á vorin, kemur um sumarmál og er þá styggur og flýgur hátt. Hann hneggjar sjaldan, nema á flugi, og halda því margir enn í dag, að hann gjöri þennan hávaða með vængjunum. Þegar líður á sumarið og hann er seztur á egg, verður hann eins og annar fugl; þá leggst hann niður í mýrar og flóa innan um grasið og flýgur þá aldrei að kalla, nema hann sje rekinn á fætur, enda hneggjar hann þá aldrei. Snemma í október fer hann á stað; þó verða einstaka hræður eptir við laugar og hveri, þar sem jörðin er þíð og pöddurnar lifa; því hrossagaukurinn etur ekki annað, enn orma og skorkvikindi.

### 10. Keldusvín *(rallus)*.

1 tegund. Keldusvín *(rallus aquaticus)*, er vetur og sumar á Íslandi og á þó illt, en getur ekki flogið burt, því vængirnir eru of stuttir. Það er ekki svo lítill fugl, á vöxt við stelk, en fóta-lægri; nefið er rautt með gráum broddi, augun rauð, fæturnir horngráir, bakið svart með mórauðum fjaðra-röndum, brjóstið og kverkin og vangarnir ösku-grátt, með bláleitri slikju, maginn allur gulgrár og hvítt undir vængjunum. Keldusvínið felur sig á daginn, og er mest á ferð á nóttunni; hljóðin í því eru líkust eins og maður sveifli tág.

### 11. Tildra *(strepsilas).*

I tegund. Tildra *(strepsilas collaris)*, algengur fugl fyrir sunnan og vestan; kemur eptir sumarmálin og er þá enn í vetrar-búningi; snemma í maí skiptir tildran fiðri og fer þá eitthvað að verpa, líklega upp í óbyggðir; í ágústmánaðarlok koma þær aptur hópum saman með ungana niður til sjóar og eru þar rúman mánuð, þangað til þær fljúga burt; einstaka tildra er samt að flækjast eptir á veturna. Tildran er styggur fugl og illt að skjóta þær.

## 3. deild: Lappfætlur.

### 1. Óðinshani *(phalaropus).*

1. tegund. Óðinshani, sundhani *(phalaropus cinereus)*, kemur seint á vorin og fer snemma. Fallegi fuglinn er kvenndýrið. Sundhaninn er heitfengur og unir sjer vel á laugum, þó þær sjeu svo heitar, að menn þoli varla að reka höndina ofan í þær.

2. tegund. Flatnefjaður sundhani *(phalaropus platyrrhynchus)*, sjaldgæfur á Íslandi, helzt fyrir sunnan, rjett eins og hinir að lífernisháttum*).

### 2. Vatnshæna *(fulica).*

1 tegund. Vatnshæna *(fulica atra)*, svartur fugl á stærð við önd, er ekki íslenzkur, en kemur þó einstaka sinnum á suðurland.

---

| | | | |
|---|---|---|---|
| Fyrsti | hópur | 6 | tegundir |
| annar | — | . | — |
| þriðji | — | 13 | — |
| fjórði | — | 1 | — |
| fimmti | — | 20 | — |
| | alls | 40 | tegundir. |

Þar af:
7 tegundir, sem eru kyrrar árið um kring, og 6 eða 9, sem ekki mega heita íslenzkar.

---

*) Þessi fugl er rauður á bringunni og upp með hliðunum; margir kalla hann þórshana, en það nafn er komið upp ekki alls fyrir löngu.



# JÓNAS HALLGRÍMSSON.



Því, sem að Ísland ekki meta kunni,
er Ísland svipt; því skáldið hnje og dó,
skáldið, sem því af öllu hjarta unni,
sem elskaði þess fjöll og dali og sjó
og vakti fornan vætt í hverjum runni.

Þegar hann hrærði hörpustrenginn sæta,
hlýddum vjer til, en eptirtektarlaust,
vesalir menn, er gleymdum þess að gæta,
að guð er sá, sem talar skáldsins raust,
hvort sem hann vill oss gleðja eða græta.

Nú hlustum vjer og hlusta munum löngum,
en heyrum ei — því drottinn vizkuhár
vill ekki skapa skáldin handa öngum;
nú skiljum vjer, hvað missirinn er sár;
í allra dísa óvild nú vjer göngum.

En þeir, sem fylgdu þjer í lífsins glaumi
og þekktu andann, sem þjer drottinn gaf,
fylgja þjer enn þá fram í lífsins straumi
og fúsir berast út á dauðans haf;
því hjer er allt svo dauft og sem í draumi.

Gott er þjer, vinur! guðs í dýrð að vakna;
þig gladdi löngum himininn að sjá.
Víst er oss þungt að sjá á bak og sakna
samvista þinna; en oss skal huggun ljá:
vjer eigum líka úr lífsins svefni að rakna.

# NÓTT.



Sólin er sigin til viðar
í svalan norðurstraum;
blikandi bláöldur líða
og brosa við næturheims draum.

Máni frá loptinu lítur
á lagar og hauðurs ró.
Fram starir dranguriun dimmi
á dökkvan og skyggðan sjó.

Kyrt er á Kerlingarskerjum,
kúrir und skútanum már,
sefur í Sviðholtshólma
selurinn strykinn og grár.

Einmana í fjörunni fetar
frammi við dökkleitan sæ
meyjan, sem undi sjer áður
á enginu í vordaga blæ.

Þar hvarf meyjan hin mæra —
myrkt er í klettanna þró —
gekk hún bak við dranginn hinn dimma,
eða datt hún í kolbláan sjó?

Skýldu þjer ekki í skýjum,
skiptu þjer ei, máni! af því,
hvort stúlkan er lífs eða liðin,
læðstu geiminum í.

γ.



# ÓVEÐUR.



Máninn hann mænir svo bleikur
í myrkrið og himininn blá —
dimman nú drunga úr norðri
dregur yfir myrkbláan sjá.

Vindurinn volega æðir
og vekur upp báru her —
undarlega hvítnar nú hafið —
helbleikur máni það sjer.

Hræddir í felurnar flýja
fiskar um dökkva slóð —
tveir rísa hausar úr hafi,
hræðilega þyrstir í blóð.

Rauðfextur rauðkembingur
og rammefldur sverðfiskur hjá —
einir þeir synda nú saman,
sólgnir í drukknaðan ná.

"Senn kemur sólin úr hafi —
sjerðu nokkurn bát eða mann?
tvö hef jeg dægrin svo dvalið,
að drukknaðan engan jeg fann".

γ.



# HAFMEY.



Gjálpar sjórinn, gnauðar bára
gráa lágt við fjörusteina,
til og frá hún færir þangið,
fegin vill hún samt því leyna.

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára,
grá er þoka nú á firði —
ekki verður þarinn þreyttur,
þó hann beri vætu byrði

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára,
grilli jeg þarna í eitthvað lítið —
nær það svífur sannarlega,
og sýnist mjer vera eitthvað skrítið.

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára,
grár við báru steinninn hjalar —
hafmey kemur, neinei! neinei!
nú skal jeg við hana tala!

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára —
góð og blessuð, hafmey! sjertu,
góðan daginn, drósin fríða!
dásamlega falleg ertu.

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára,
gegnirðu ekki, hafmey fríða?

af hverju er það? ertu mállaus?
ekki er jeg þó þjer að stríða.

Gjálpar sjórinn, gnauðar bára,
grá leið þoka burtu frá mjer;
hafmeyjan var farin fagra; —
fölur kópur synti hjá mjer.

γ.

# KVEÐJA.



Vindur blæs og voðir fyllir breiðar,
verpur skipi ströndum ísa frá,
fagrar hverfa fósturjarðar heiðar,
fjallatindar þvo í köldum sjá
enni hvít. En einn á þiljum grætur
ungur sveinn, er feðra kveður láð;
ekki veit, hvort apturkomu lætur
auðið honum drottins verða náð.

Ó, jeg minnist, ættarjörðin fríða!
á svo mart, er lengi mun eg þrá:
man jeg svanasönginn engil-blíða
silfurhvítum hljóma tjörnum á;
man jeg dal í daggarfeldi bláum,
dags er roði fagur gyllir tind;
man jeg brekku blómum prýdda smáum,
brattan foss og kaldaverslulind.

Aldrei gleymi eg þeim sælutíma,
úti stóð jeg vordagskvöldin hlý:
vetrarfötum frá sjer kastar gríma,
færist hvítan sumarskrúða í;
vindar þegja, værðir blómin taka,
viðar til er hnigin sunna rauð,
fuglar sofna, fossar einir vaka.
fyrir sandi heyrist bárugnauð.

Vertu sæl! og vertu blessuð, móðir!
veit jeg nú, hve sár þinn missir er.
Sonum þínum sendir kveðju bróðir;
sje þeim jafnan helgust ást á þjer.
Frægðarsunna fögur þjer upp renni,
fyr sem skein á víðigræna hlíð;
engan myrkva megi sjá á henni,
meðan dunar sær og líður tíð!

---

# LANDA-VÍSOR.

## Island.

Grænom lauki gróa túnin;
  Gyllir sóley hlíða sillor;
Færa víkr flyðro á vári;
  Fuglar syngja í Trölladyngjom:
Sauðir strjálask hvítir um heiðar;
  Hossar laxi straumr í fossi;
Bella þrumor á brúnom fjalla;
  Blár es hifinn, snarpr es Kári.

## Írland.

Breytiligt es land at líta
  Lengi frægt á hörpostrengeom,
Feörðom skorit, flotit mýrom,
  Fullt af gnægt, þó sakni ræktar:
Seávar lónom söltom yfir
  Smaragðlitar brekkor glitra;
Fossar þula í þröngo gili,
  Þreyttir aldri, dverga galdra.

## Skotland.

Skotland þykkir (skrökvak ekki)
  Skuggaligt af þoko muggom:
Nízk es eörð, þótt ekro arði
  Öld sè feáð á þistilláði:
Fealla straumar fleóta of völlo;
  Forth ok Clyde ero prýði storðar:
Hvergi reisask háfar borgir
  Heldri tign; en sífellt rignir.

## England.

Orð es gört af aldingarði
  Englafoldar sízt vargoldit:
Lifa of svörðo laufguð gerði,
  Leit es skömm at megno hveiti:
Skrýða feörðo segl; en súða
  Sægir þekea fleót ok ægi:
Æðibratt á ísarn-slóðom
  Aldir hverfa Loka galdri.

## Holland.

Seg, hvárt kyn sè lands eða lagar
  Loptgrá strönd í Rínar hvopti;
Skerask inn of akra rennor,
  Æfivist hefir þeóð á sævi:
Morgna ok kveld snýsk mylnofeöldinn,
  Marar þolir iðna golo;
Fullom seglom fljúga of völlo
  Fley á fagar þröngom vegi.

## Þeóðverealand.

Hólar þýzkir hygg ek feli
  Hvítan málm með eötna sálmi;
Dóná stríð með steypiflúðom
  Streymir yfir víntreá geima:
Frægt es landit fealla skógom;
  Fríð ero torg ok konunga borgir;
(Engi frá ek annat syngi);
  Akrarækt man feölga gnægtom.

## Austrríki.

Austrríki es í flesto
  Ágætt land; en nokkurr vandi
Orð at laga í öllo ok görðir
  Eins og líki Metterníki.

Víst es góð í Linz, es læðisk
  Lág á Dónárbakka. Fáir
Una vísis ullbandspreónom
  Á Spílbergi; þar fersk mergr.

Spánland*).

Spánn es feall, með feikna stöllom,
  Flatr á koll. En ráuar tolla
Gealda elfir. Ærit silfr
  Út ór fargask Sagarbeargi.
Suðr gnóg es sæld í hlíðom:
  Sæt ero granateplin; kætask
Drósir víni í Vandalhúsom;
  Vex þar auðr af frjófgan sauða.

Sýrland með Jórsalaheimi.*)

Sæloland es Siria talit;
  Sízt því Móses of lèt hrósat.
Steinn es görr af gráno eárni;
  Geysi málmr ór beörgom leysisk.
Tinda keðros krýna viðir;
  Kælir Eórdán miðdags svælo.
Drottinn hèr vas heilagr borinn;
  Hans bersk lof yfir alda rofin.

*) Þessi lönd hefir höfundrinn ekki sèt.

# TIL HRA. KONRÁÐS GÍSLASONAR.

Yðr man virðask heldr heákátligt, at ek ríta skýringar of hègóma slíkan, sem "Landa-vísor" mínar ero, ok hins vegar er þat ok satt, at ekki mælir þat fram með orðfæri þeirra, ef nauðsyn berr til at túlka þat es ritit es. En fyri því, at ek hefi drepit á nokkura þá luti í öðrom löndom, es eigi muno vesa hvereom manni kunnir á Íslandi, vil ek geta þess, at:

1) Lengi frægt á hörpostrengeom, í írsko vísonni, lítr ekki einungis til þess, at harpan es eitt af eartegnom þeim, sem sett ero í vápnskeöld Írlands, heldr meir til þess, at harpan es þat hleóðfæri, es alþýðo es meök títt at hafa á Írlandi, til at styðea rödd sína við söng írskra kvæða. Smárinn írski, es engskir menn kalla *shamrock*, es annat þeóðmerki Íra, ok bera þeir þat á hátíðom, til heiðrs verndarmanni sínom, enom helga Patricio (eða Patreki): af þesso grasi es Írland svá grænt, at skáldin hafa í margar aldir kallat þat *emerald isle* (smaragðsey).

2) Es ek hefi sagt um Skotland, at "eörðin sè nízk, en fólkit þó ríkt af akrgróða", þá es þat svá at skilea, at Skotar sè í akryrkeo ok garðyrkeo afbragð annarra þeóða. Þistillinn es vápnmerki þeirra, ok þykkir þeim vel við eiga orðtak þat, es hánom fylgir á skildinom: *nemo me impune lacessit*. Hvergi reisask háfar borgir o. s. frv. Fegurð Edinborgar ok Glasgóar es meök nafufræg.

3) Þat þykkir mèr rèttmæli, þó nýtt sè, at kalla í kveðskap járnbrautirnar **ísarnslóðir**, ok öll þau furðoverk, sem framin ero með eimi vatns eða kvikasilfrs **Loka galdr**, svá sem ek hefi gört í Englandsvísonni.

4) **Fullom seglom** o. s. frv. í Hollands-vísonni, skilca þeir bezt, es sèt hafa. Mèr datt fyrst í hug at setea: **á lagar huldom vegi**; því svá lítr út, sem skipin sigli yfir græna grund; því rennornar seásk ekki á láglendino, ef maðr es örskotslengd frá þeim.

5) Í Austrríkis-vísonni es þess at gæta, at *Spielberg* er kölluð dýflissa í *Brunn*, ok ero þar settir þeir menn, es dæmdir hafa verit fyri landráð. Þar vas haldinn þeóðskáldit *Silvio Pellico* ok *Confuloniere* earl ok margir aðrir merkismenn, ok gaf Ferdínand keisari flestom þeirra frelsi,, es hann kom til ríkis árit 1838. Þeir, sem í þessarri dýflisso sitea, ero látnir preóna sokka ok glófa af ullbandi með trèpreónom, ok una því illa enir lærðo menn.

6) Í vísonni um Spánland hefi ek snúit spænsko nafni á íslenzku ok kallat Sagarbjarg þat es spænskir menn kalla *Sierra*. Mörg ero þau fjöll á Spáni, es svá heita, ok ero silfrnámar í sumom. Spánverear ero engir drykkeomenn. Svá sagði mèr sannorðr maðr skozkr: ef þeir mæta ölfuðom manni, þá segea þeir: *es un Ingles o un fraile* (hann es engskr eða munkr); því þótti mèr litlo varða, hvárt sagt væri at karlar drykki eða konor, es ek vilda at eins minnask á, at Spánn væri vínland. Es ek hefi kallat *Andalusia* Vandalhús, þá ero til þess nokkur rök; því svá segea lærðir menn á Spáni, at þat fylki sè svá kallat eptir Vindom ok hafi í fyrsto heitit Vandalhús; en ekki man ek nú, hvárt ek hafi sèt þat hereá *Florian de Ocampo*, eða *Garibay* eða *Mariana* eða *Larramendi* eða hvereom öðrom fróðom manni, ok

væri nú langt at leita eptir slíkom bókom; því sumar þeirra finnask ekki í Danmörko. Vex þar auðr af frjófgan sauða hefir tillit til kvikfeárræktarfèlagsins spænska, es á spænsko máli heitir *la Mesta*, ok á þat ógrynni feár. Í því fèlagi ero allir spænskir stórhöfðingjar; ok es engi efi á því, at sauðfè es, og hefir lengi verit, aðal-uppspretta auðar á Spáni. Lögbók þessa fèlags, *los leyes de la Mesta*, es stærri, enn lögbók landsins seálfs.

Nú þarf þat afsökunar fyri löndom várom, ef ek hefi tínt eitt eðr annat þat, es mörgom es kunnigt; því eptir þreátigi ok þriggea ára fjarrvist get ek naumliga ætlazt á, hvat Íslendingom sè miðr kunnigt eða meir.

Í vísonom hefi ek leitazk við at telea þat hvereo landi mest til lofs eða lasts, es seálfar þeóðirnar telea löndom sínom.

*Vale, nobisque favere perge.*

Þorl. Gudm. Repp.

# SKÝRSLA
## um íslenzk bindindisfjelög frá vordögum 1846 til vordaga 1847.



Þess er getið í skýrslu þeirri, er prentuð var hjer í Kaupmannahöfn í fyrra vor, um íslenzk bindindisfjelög frá vordögum 1845 til vordaga 1846, að það ár hafi tala íslenzkra bindindismanna fjölgað um rúm 3 hundruð — 291 karlmenn og 10 kvennmenn — að því sem frjetzt hafði hingað. Það er nú að sönnu óvíst, hvort jafnmargir hafi við bætzt þetta árið; en hitt er efalaust, að bindindin hefur náð talsverðum þroska síðan á Íslandi; því bæði er það, að hugmyndir manna eru allajafna að skýrast um skaðsemi áfengu drykkjanna, og líka vex óðum tala þeirra manna, sem álíta bindindisfjelögin einkaráðið til að eyða óhöppum þeim, sem ofdrykkjunni fylgja, og ekki skorast sjálfir undan að sýna það í verkinu. Höfum vjer sannindi til þessa úr fjölda brjefa, er hingað hafa komið að heiman. Má því enginn halda, að nokkur deyfð sje komin yfir bindindismálið á Íslandi, þó vjer höfum ekki í þetta skipti frá jafnmörgum nýjum bindindismönnum að segja og í fyrra vor, heldur er það því að kenna, að vjer höfum fáar skýrslur fengið frá forstjórum deildanna, og munu margir þeirra hafa geymt sjer að senda þær til haustsins, þó þeir á annað borð hafi ætlað sjer að gefa oss vitneskju um viðgang fjelagsins. Skulum vjer nú nefna skýrslur þær, er oss hafa borizt í hendur:

Í Reykjavíkur-skóla hafa þessir menn bætzt við fjelagsdeildina, sem þar er:

Kennarar:

Björn Gunnlaugsson,
Sigurður Pálsson Melsteð,
Jens Sigurðsson.

Skólapiltar:

Ólafur Stefánsson Gunlögsen,
Jón Þorleifsson,
Steingrímur Bjarnason Thorsteinson,
Jón Pálsson Melsteð,
Stefán Pjetursson,
Halldór Pálsson Melsteð,
Benidikt Gabriel Jónsson,
Magnús Jónsson,
Jón Jónsson (frá Mosfelli),
Þorvaldur Stefánsson,
Sigurður Eiríksson Sverrisen,
Helgi Einarsson,
Friðrik Bjarnason Thorarensen*),
Sigurður Helgason og
Geir Árnason Vídalín.

Í Reykjavíkurpóstinum er getið á 61.—63. bls., að annað bindindisfjelag hafi verið stofnað í Reykjavíkurbæ í vetur, og að 32 menn hafi verið komnir í fjelagið þegar sú skýrsla var prentuð, en ekki vitum vjer nöfn þeirra. Stefán landfóeti Gunlögsen er forstjóri þess fjelags.

Í bindindisfjelagið í Bessastaða-sókn á Álptanesi hafa þessir menn gengið:

Jón Magnúss-son, sjálfseignarbóndi í Akrakoti,
Teitur M. Bergmann, sjálfseignarbóndi í Litlabæ,
Sigurður Gunnlaugsson, sjálfseignarbóndi á Deild,
Sæmundur Guðmundsson, bóndi í Sviðholti,
Eyjólfur Einarsson, tómthúsmaður á Svalbarða,

---

*) Hann er síðan dáinn.

Eyjólfur Guðnason, vinnumaður, og
Davíð Guðmundsson, ljettadrengur á Eyvindarstöðum.

Þar að auk hefur ein kona og tvær stúlkur ógiptar gengið í fjelagið.

Í Garðasókn á Álptanesi hefur Halldór Halldórsson, sjálfseignarbóndi á Setbergi gengið í lög með oss.

Í Þingvallasókn í Árness-sýslu: Gísli Daníelsson, vinnumaður á Hrauntúni.

Frá forstjórum bindindisfjelaganna í Austurskaptafellssýslu höfum vjer ekki fengið neinar skýrslur, en heyrt höfum vjer að bindindismönnum hafi fjölgað í Öræfum, og hafa þessir menn verið nafngreindir:

Jón Sigurðsson, hreppstjóri,
Þorsteinn Sigurðsson,
Einar Sigurðsson, og
} sjálfseignarbændur á Svínafelli.

Gísli Gíslason, sjálfseignarbóndi á Fagurhólsmýri.

Konur þessara manna hafa og gengið í fjelagið.

Úr Norðurþingeyjarsýslu höfum vjer fengið skýrslu um bindindisfjelag, sem stofnað hefur verið í Sauðaness-sókn á Langanesi. Í það fjelag voru þessir menn gengnir:

Vigfús Sigurðarson, aðstoðarprestur á Ytralóni,
Jón Sigurðarson, vinnumaður á. s. b.,
Jón Benjamínsson, trjesmiður á Sauðanesi, (forstjóri fjelagsins),
Gísli Þorsteinsson, trjesmiður á. s. b., (gjaldkeri fjelagsins),
Rögnvaldur Rögnvaldsson, vinnumaður á. s. b.,
Sigurður Víglundarson, vinnumaður á. s. b.,
Þorsteinn Víglundarson, yngispiltur á. s. b.,
Gísli Gíslason, vinnumaður á. s. b.,
Arngrímur Benidiktsson, yngispiltur á. s. b.,
Stefán Þorkelsson, vinnumaður á. s. b.,
Guðmundur Jónsson, meðhjálpari, á Syðralóni, (varaforseti),

Helgi Sigfúss-son, fyrirvinna á Ytribrekkum,
Einar Guðmundsson, bóndi á Fagranesi,
Þórarinn Eymundsson, fyrirvinna á. s. b.

Úr Strandasýslu höfum vjer fengið skýrslu frá bindindisfjelaginu í Tröllatungu og Fells sóknum, og hafa þessir menn þar gengið í lög með oss:

Halldór Magnúss-son, bóndi á Vonarholti,
Bjarni Árnason, bóndi á Hlíð,
Sigurður Sakaríasson, yngispiltur á Heydalsá,
Björn Jónsson, yngispiltur á Kollafjarðarnesi og
Guðmundur Guðmundsson, yngispiltur á. s. b.

Í bindindisfjelag það, sem *Dr. theol.* Pjetur prófastur Pjetursson á Staðastað hefur stofnað í sínu prófastsdæmi*), hafa þessir menn gengið síðan í fyrra vor:

í fyrra sumar:

Eggert Fjeldsteð, sjálfseignarbóndi á Stóruseljum,
Þórður Jónsson, hreppstjóri, sjálfseignarbóndi á Rauðkollsstöðum,
Jón Magnúss-son, yngismaður í Fagradal,
Sigurður Jónsson, yngismaður á Kambi,
Jón Jónsson, vinnumaður á Neðribrunná,
Lárus Pjetur Ottesen, bóndi á Sveinsstöðum,
Ásmundur Þorleiksson, formaður, bóndi á Gellu í Rifi.

Í vetur, er var:

Í Staðastaðar-sókn:
Torfi Jónsson, yngismaður á Hólkoti,
Sigurður Jónsson, yngismaður á. s. b.,
Gunnlaugur Þorkelsson, yngismaður á Bláfeldi,

---

*) Í skýrslunni í fyrra er skakkt prentað nafn eins manns í þessu fjelagi. Þar stendur:

Jakob Jakobsson, hreppstjóri á Ingjaldshóli.

Það á að vera:

Sigurður Jakobsson, hreppstjóri á Ingjaldshóli.

Sigurður Sigurðsson, bóndi á Barðastöðum,
Þorsteinn Jónsson, vinnumaður í Vatnsholti.
Magnús Illugason, vinnumaður í Haga,
Sigurður Bjarnason, bóndi í Haga,
Sigurður Þorgilsson, bóndi á Þorgeirsfelli,
Jón Illugason, bóndi í Hagaseli,
Bjarni Jóhannsson, yngismaður í Hól,
Helgi Bjarnason, bóndi á Hóli;
Jón Jóhannsson, bóndason á Saurum,
Jón Jónsson, bóndi á Slitvindastöðum,
Jón Þorgeirsson, smiður á Búðum.

Í Miklaholts-sókn:
Jón Þórðarson, hreppstjóri í Syðraskógarnesi.

Í Setbergs-sókn:
Þorsteinn Þorsteinsson, bóndi á Berserkseyri.

Í Hjarðarholtssókn í Mýrasýslu hefur gengið í lög með oss:
Kjartan Magnússon, bóndi á Steinum.

Í Reykjaholtssókn í Borgarfjarðarsýslu:
Grímur Steinólfsson, bóndi á Grímsstöðum,
Steingrímur Grímsson, yngispiltur á. s. b.,
Steinólfur Grímsson, yngispiltur á. s. b.,
Jón Þorleifsson, bóndi á Snældubeinsstöðum.

Um fjelag vort hjer í Kaupmannahöfn er það eina að segja, að miðvikudaginn seinastan í vetri voru hjer 16 íslenzkir bindindismenn, og höfðu 4 þeirra bætzt við síðan í fyrra heiman af Íslandi, sem allir voru bindindismenn áður, og hafa nöfn þeirra fyr verið prentuð.

Í skýrslu þeirri, er vjer gjörðum í fyrra vor, gátum vjer þess, hvernig vjer hyggjum koma mætti öllu bindindismálinu í sem bezt horf að löguninni til. Er meira varið í haganlega lögun, enn margur hyggur. Það er ekki einungis fróðlegt, að vita hversu margir bindindismenn eru í hvert skipti í landinu og geta sjeð, hversu

mikið tala þeirra eykst á ári hverju, heldur er það málinu sjálfu til hins mesta stuðnings, að menn viti, hvað því verður ágengt. Mun flestum bindindismönnum þykja gaman og gleði í þeim fróðleik, enda kann hann og verða sumum þeirra, sem veikir eru fyrir, til nokkurrar styrkingar; en margur maður, sem ekki er enn í bindindisfjelag kominn, kann að vera svo drenglundaður, að þegar hann ber saman töluna bindindismanna og hins urmulsins, sem enn er við að berjast, liggur hann ekki lengur á liði sínu, heldur gengur í flokk þeirra, sem færri eru saman og betri eiga málstaðinn, og mundi þó ekki hafa lagt það á sig*), hefði hann eigi vitað, að liðsmunur var svo mikill. En þegar bindindismenn eru orðnir fleiri enn hinir, þá kann margur að leiðast til hins rjetta af því, að hann óttast almennings róm og álas hinna betri manna, sem þá verða flestir í bindindi komnir. En það er ekki unnt, að vita tölu bindindismanna í hvert skipti og allt ásigkomulag, nema bindindisfjelögunum sje vel fyrir komið að hinni ytri skipun. Ekki er heldur auðvelt, nema svo sje, að vita hvað flestir bindindismenn mundi á kjósa í einhverju efni, nje heldur að leggjast allir á eitt, ef við skyldi þurfa, t. a. m., ef mönnum þætti ráð að leita alþingis í einhverju efni. Fyrir þessa sök látum vjer prenta hjer aptur greinir þær, er að þessu efni lutu í skýrslu vorri í fyrra, og hnýtum við þær einstöku athugasemdum.

Vjer höldum það enn sem fyr vera óskaráð til að koma öllu bindindismálinu í sem bezt horf að löguninni til:

1) að allir bindindismenn sjeu í raun og veru eitt fjelag og hafi allir ein lög.

---

*) Flestir menn kalla það að leggja á sig, að ganga í lög með oss, meðan þeir hafa ekki reynt þau. En svo mun öllum virðast, sem nokkra stund hafa verið bindindismenn, að þeim sje lítill byrðarauki að því lögmáli.

2) að fjelag þetta skiptist aptur í deildir á þann hátt, að ein deild sje í hverri kirkjusókn, þeirri er nokkur bindindismaður er í (þó ekki sje nema einn), og þar að auki ein í skóla og ein í Kaupmannahöfn. Sýnist það liggja í augum uppi, að á Íslandi verði mönnum víðast hvar hægast um alla fundi og umsjón efna sinna, ef deildirnar eru ekki stærri enn svo, sem nú var sagt, þar sem menn geta þá hitzt við kirkju sína. Ekki viljum vjer samt, að menn skipti fjelögum sínum, þar sem þau nú ná yfir tvær sóknir, og fjelagsmönnum þykir vel fara; en vart sýnist oss deildirnar megi stærri vera. Á hinn bóginn yrði mesti ruglingur úr því, ef bindindismenn þeir, sem eru í einni sókn, væri ekki allir í sömu deild, (nema í Reykjavík, sbr. bls. 88).
3) að hver deild hafi sjer forstjóra. Þar sem ekki er nema einn bindindismaður í sókn, yrði hann að vera í forstjóra stað, að því leyti, sem á þarf að halda.
4) að hver forstjóri hafi bók handa þeim að rita í nöfn sín, er verða bindindismenn í hans umdæmi.
5) að hver forstjóri sendi hvert ár skýrslu um sína deild til forstjóra Reykjavíkur-deildarinnar*) (ekki skóladeildarinnar); því þar sem nú er stofnað svo öflugt bindindisfjelag þar í bænum, sýnist betur við eiga, að senda þangað skýrslurnar, enn hingað til vorrar deildar. Allar skýrslur ættu að vera dagsettar miðvikudaginn seinastan í vetri, en ekki er fyrir því nauðsyn á, að menn eigi fund um það leyti. Í skýrslunni væri bezt að fyrsta árið

*) sem nú er Stefán landfóeti Gunlögsen, einn og áður er á minnzt.

stæði nöfn allra þeirra, sem í deildinni eru, en síðan þyrfti ekki annað í henni að standa, enn: tala bindindismanna í hverri sókn, þegar skýrslan væri dagsett; hvað margir af þeim væru kvennmenn; nöfn þeirra deildarmanna, sem gengið hafa í bindindislög hið síðasta ár (ekki þeirra, sem komið kynnu að hafa í deildina úr öðrum deildum); og undir skýrslunni nafn, stjett og heimili deildarstjórans. Svo öllum geti skilizt sem bezt, hvernig þesskonar skýrslur geti verið lagaðar, látum vjer prenta þetta sýnishorn:

"Í Baugstaðasókn í Mýra prófastsdæmi eru 16 í bindindisfjelagi; þar á meðal 4 kvennmenn.

Þessir hafa hjer hin síðustu missiri gengið í lög með oss:

Oddur Sveinsson, bóndi á Núpsseli,

Hákon Jónsson, vinnumaður á Tindum,

Þorsteinn Vígfúss-son, yngismaður á. s. b.

Ökrum í Baugstaðasókn, miðvikudaginn seinastan í vetri 1847.

Þormóður Halldórsson, hreppstjóri í Tunguhrepp".

Þegar nú þessar deildaskýrslur kæmi til Reykjavíkur ætti bæjardeildin þar að gera úr þeim eina aðalskýrslu, og koma henni síðan á prent.

Aldrei er góð vísa of opt kveðin*), og ekki hefði verið illa til fallið, að láta nokkrar athugasemdir um nauðsyn bindindisfjelaga fylgja skýrslu þessari, en vjer látum samt lenda við að benda mönnum til eins hlutar, þó hann liggi í augum uppi. Í tvö undanfarin ár hefur jarðeplaræktin brugðizt alstaðar í Norðurálfunni, og í fyrra sumar var kornuppskera þar víða hvar í minna lagi.

---

*) Jón landlæknir Thorstensen á mikla þökk skilið fyrir ritling sinn um skaðsemi áfengra drykkja, og væri óskandi að sem flestir vildi kynna sjer þá bók.

Hefur því matarforðinn víðast verið miklu minni enn áður. og hafa sumstaðar fátæklingar fallið hrönnum saman af sulti, en verð á korntegundum öllum víðast orðið svo geysi mikið, að úr hófi keyrir. Nú mundi flestum þykja illa að farið, þegar svo er á statt, ef menn köstuðu á sjó út ógrynni korns, sem margar þúsundir manna gæti haft til viðurværis í langa tíma. En hverju nafni á að nefna það ráðlag, er menn verja svo miklum matarforða til að seyða af brennivín, þeim til eintómrar óhamingju, sem á því bergja? Skal hver maður það vita, sem erfitt verður um kornkaup á Íslandi í sumar, eða nokkuð kennir í brjóst um þá, sem lítil hafa efni til kaupanna, að brennivínsdrykkjan á ekki all-lítinn þátt í óverði kornsins.

Hið íslenzka bindindisfjelag í Kaupmannahöfn, miðvikudaginn seinastan í vetri 1847.



